gerir Helgi konungr prýðiliga veizlu í móti honum. Hróarr konungr mælti: „þú munt vera okkar meiri maðr, en fyrir þá sǫk, at ek hefi staðfest mik í Norðimbralandi, þá ann ek þér vel þessa ríkis, er vit eigum báðir, ef þú vilt miðla mér nǫkkut lausafé; vil ek fá hringinn þann, sem beztr gripr er í þinni eigu, ok vit vildum báðir eiga“. Helgi sagði: „eigi sómir annat, frændi, en þú eigir hringinn víst við þessi ummæli þín“. Ferr nú Hróarr konungr á burt ok heim í ríki sitt ok sez um kyrt.

**Kap. 8.** Þat bar til tíðinda, at Sævill mágr þeira andaðiz, ok tók Hrókr sonr hans ríki eptir 24 hann; hann var grimmr maðr ok harla ágjarn. Móðir hans segir honum mikit frá hringnum, er þeir bræðr áttu — „ok þótti mér, sagði hún, ekki ósannligt, at þeir bræðr mintuz okkar um nǫkkut ríki, því *at* vér studdum þá í hefndum eptir fǫður várn, ok hafa þeir ekki minz þess við fǫður þinn né mik“. Hrókr sagði: „þú segir dagsanna, ok er slíkt firnafult, ok æ skal ek eptir leita við þá, hvern sóma várn þeir vilja gera þar fyrir“. Ferr hann síðan á fund Helga konungs ok krefr hann þriðjung ríkis í Danmǫrk eða hringsins góða, því *at* hann vissi þá ekki, at Hróarr átti hann. Konungr sagði: „þér mælið allfrekliga til ok geysistórliga; unnu vér

1. gerir—honum: H. kgr fagnar honum einka vel ok gerir á móti honum pr. v. *B.* 5. nǫkkut: *CD*; nokkurú *AB.* 7. eigu: eign *B.* 8—9. hringinn víst: hann ok er þó alls oflítit *B.* 9. þín: *sål. CD*; þá *A*; *ul. B og interpungerer (= A) foran* við þ. u. 10. á—ok: *ul. BC.* 11. Sævill: jarl *tf. BD*; jarl *har også C men ul.* mágr þ. 17. hefndum: hefnd *CD.* 18. þess: þessa *B.* 19. dagsanna: þetta satt *D.* 19—20. ok—fult: *ul. D*; firn *skr. B.* 20. æ: *ul. D.* 23. hringsins: hringinn *CD.* 25. geysistórl.: heldr stórl. *C*; *ul. D.*

ríkit með hetjuskap, svá at vér lǫgðum várt líf í veð, með atstuðning fǫður þíns ok Regins fóstra míns ok annarra góðra manna, er oss vildu lið veita; nú vilju vér þér víst laun á gera, ef þú kant at þekkjaz, vegna frændsemi okkar, en svá mikit hefir mik kostat ríki þetta, at þat vil ek fyrir engan mun missa; en Hróarr konungr hefir nú tekit við hringnum, ok vænti ek, at hann sé ekki lauss fyrir þér“. Við þetta ferr Hrókr í burt ok unir allilla við; sækir nú á fund Hróars konungs; hann tók við honum vel ok sæmiliga, ok er hann með honum um hríð. Ok eitt sinn, er þeir fara fyrir land fram ok lágu á firði einum, þá mælti Hrókr: „þat þætti mér þér sómi, frændi, at þú gæfir
25 í mitt vald hringinn góða ok mintiz svá várrar frændsemi“. Konungr sagði: „svá hefi ek mikit til gefit, at fá hring þenna, at ek vil hann fyrir engan mun láta“. Hrókr segir: „þá munt þú lofa mér at sjá hringinn, ok er mér á honum hin mesta forvitni, at vita, hvárt hann er slík gersemi, sem sagt er“. „Þat er þér lítil veizla, segir Hróarr, ok skal þat víst láta eptir þér“, ok fekk honum hringinn. Nú hugði Hrókr at hringnum um stund ok kallaði ekki mega ofsǫgum frá segja — „ok hefi ek enga gersemi séna slíka, ok er þat hin mesta varkunn, at ykkr þykki allgóðr hringrinn; mun þat nú bezt ráð, at hvárgi okkar njóti ok engi annarra“; fleygir síðan af hendi hringnum ok út á sjóinn, sem lengst mátti hann. Hróarr konungr mælti: „þú ert allillr maðr“.

---

2. at-: *ul. D.* 6—7. fyrir—mun: með engu móti *B.* 10. allilla: illa *D.* 17. fá: eiga *B.* 18—19. lofa—hringinn: vilja sýna mér hann *B.* 24. -sǫgum: -sǫgn *A.* frá: af *D.* 26. ykkr: yðr *CD.* nú: ok *B.* 27. ok—annarra: né neinn annarr *D.*

Hann lét síðan fóthǫggva Hrók ok flytja svá til
ríkis síns; varð hann skjótt heill maðr, svá at greri
fyrir stúfinn; þá safnar hann sér liði ok vill hefna
sinnar skammar; hann fær mikit lið ok kemr við
Norðimbraland á óvart, þar sem Hróarr konungr
var á veizlu heldr fámennr. Hrókr leggr þegar at,
ok tókz þar harðr bardagi ok er mikill liðsmunr;
fellr þar Hróarr konungr, en Hrókr leggr undir sik
landit; hann lætr gefa sér konungsnafn; síðan bað
hann Agnar, dóttur Norðra konungs, er áðr hafði
átt Hróarr konungr frændi hans. Norðra konungi
þótti nú fallit til sín mikit vankvæði, því *at* hann
var þá maðr gamall ok lítt fallinn til at vera í 26
baráttu, sagði nú Ǫgn dóttur sinni, hvar komit var,
ok léz eigi vilja teljaz undan at halda upp bardaga,
þótt hann væri gamall, ef þetta væri á móti hennar
skapi. Hún sagði með harmi miklum: „víst er þetta
í móti mínum vilja, en þó ek sé, at líf þitt liggr
við, þá vil ek honum eigi frá vísa með því móti,
at frest sé gert nǫkkurt, því *at* ek em með barni,
ok verðr þat mál fyrst at greiðaz, ok á þat barn
með mér Hróarr konungr“. Nú er þetta mál borit
fyrir Hrók, en hann vill frestit til gefa, ef hann
skal þá auðvelligar komaz at ríki ok ráðahagnum;
þykkiz Hrókr hafa mjǫk framaz í þessarri ferð, er
hann hefði feldan svá frægan konung ok ríkan. En

1. fóthǫggva: hǫggva fót af *D*. 2. svá at: ok *BD*. 4. skammar: svívirðingar *B*. 6. -mennr: *CD*; mentr *AB*. 9. landit: ríki hans *B*; ríkit *D*. 10—11. áðr—átt: átt hafði *C*. 12. vankvæði: vandræði *B*. 13. fallinn: færr *B*. 13—14. at —baráttu: bardaga *B*. 15. upp: *C*; uppi *A*; *ul. BD*. 16. væri: eigi *tf. alle, men udstreget i D*. 18. ek sé: *omv. D*. 20. gert: á *tf. CD* (*foran* frest). em: *D*; er *de øvrr*. 24. auðvelligar: auðveldara *B*. 26. feldan svá: *omv. A*. ok ríkan: *ul. B*; unnit *tf. A*.

í þessum svifum sendi Qgn menn á fund Helga konungs ok bað svá segja honum, at hún mundi eigi koma í rekkju Hróks, ef hún væri sjálfráð ok ónauðug — „fyrir þá sǫk, at ek er með barni Hróars konungs“. Sendimenn fóru ok sǫgðu svá, sem boðit var. Helgi konungr sagði: „þetta er vitrliga sagt hennar vegna, því *at* hefna mun ek Hróars bróður míns“. En Hrók grunar þetta ekki.

**Kap. 9.** Qgn drotning fæðir nú son þann, er Agnarr hét; hann var snemma mikill ok efniligr.
27 En er Helgi konungr spurði þetta, safnar hann liði ok ferr á fund Hróks; tekz þar bardagi, ok svá lýkr, at Hrókr verðr handtekinn. Þá mælti Helgi konungr: „þú ert allillr hǫfðingi, en því mun ek eigi drepa þik, at þér er meiri skǫmm at lifa við harmkvæli“. Síðan lét hann brjóta fótleggi hans ok handleggi ok sendi hann svá aptr í ríki sitt, at hann var til einskis færr. En er Agnarr Hróarsson var tólf vetra, þóttuz menn ekki hafa sét þvílíkan mann, ok um alla atgervi var hann fram yfir aðra menn. Hann gerðiz hermaðr mikill ok svá frægr, at hans er víða getit í fornum sǫgum, at hann hafi mestr kappi verit at fornu ok nýju. Hann spurðiz eptir, hvar fjǫrðr sá væri, sem Hrókr hefði slengt hringnum utan borðs; margir hǫfðu eptir honum leitat með alskonar vígvélum ok náðu honum eigi. Ok svá er sagt, at Agnarr kemr skipi sínu á þenna fjǫrð ok mælti: „þat væri nú snarræði at sækja eptir hringnum, ef menn hafa hér gløgg mið á“.

2. svá: at láta *tf. A.* 3. væri: er *CD.* 8. þetta ekki: hér ekki neitt um *B.* 9. þann: *ul. D.* er: *ul. AC.* 17. ok handleggi: *ul. D.* at: ok (v. h.) *D.* 21. svá: *foran* mikill *i A.* 23. spurðiz: spurði *B.* 24. hefði: hafði *A.*

Menn sǫgðu honùm þá, hvar honum hefði verit á sjóinn kastat. Síðan býr Agnarr sik til ok kafar í djúpit ok kemr upp ok hefir eigi hringinn; ofan fór hann í annat sinn ok hefir eigi nát honum, nú mælti hann: „slæmliga er nú eptir sótt“, ok fór svá niðr í þriðja sinn, ok kom þá upp með hringinn; af þessu varð hann ágætliga frægr, ok frægri 28 en hans faðir. Helgi konungr sitr nú í ríki sínu um vetrinn, en í víkingu á sumrum, ok gerðiz frægr maðr. Þau Yrsa unnuz mikit ok áttu einn son, þann *er* Hrólfr hét, er mikill mætamaðr varð síðan.

**Kap. 10.** Ólof drotning spyrr, at þau Helgi konungr ok Yrsa unnuz mikit ok una vel ráði sínu; þat líkar henni ekki vel ok ferr á fund þeira; ok sem hún kom þar við land, sendir hún orð Yrsu drotningu; ok sem þær hittaz, býðr Yrsa henni heim til hallar með sér; hún kvez þat eigi vilja, kvez engan sóma eiga at launa Helga konungi. Yrsa mælti: „óvirðuliga gerðir þú til mín, er ek var með þér, eða kantu nǫkkut at segja mér frá ætt minni, hver hún er, þvi *at* mik grunar, at eigi sé svá, sem mér er til kent, at ek væri ein karls dóttir ok kerlingar“. Ólof sagði: „ekki er þess ørvænt, at ek kunni at segja þér nǫkkut þar af; var þat mitt mest erindi hingat, at ek vilda kunn-

1. á: í *D.* 4. honum: er hann kemr upp *tf. A.* 5. slæm-: *CD*; slag- *A*; slæg- *B.* 8. Helgi: *CD*; Hróarr *AB.* 9. vetrinn: vetr *CD.* sumrum: *C*; sumrin *AB*; sumar *D.* 10. maðr: ok meiri en hans faðir (f. h. *BD*) *tf. ved ur. gentagelse alle.* Þau: Helgi kgr ok *tf. B (jfr.* Hróarr *l. 8).* unnuz: untuz *alle* = *l. 14.* 11. son: til samans *tf. B.* 15. ekki vel: stórilla *B.* 21. frá: af *B.* 23. kent: kynt *BD.* væri: sé *C.* 26. mest: *C*; mesta *ABD.*

gera þér þat, eða unir þú vel við ráðahaginn?“ „Já, segir hún, ok má ek vel við una, því at ek á hinn ágætasta konung ok hinn frægasta“. „Ekki er svá gott við at una, sem þér þykkir, segir Ólof, því *at* hann er faðir þinn, en þú ert dóttir mín“. Yrsa mælti: „mína ætla ek móðurina versta vera ok grimmasta, því *at* þetta eru þau ódæmi, er eigi
29 munu fyrnaz um aldr“. „Helga hefir þú goldit at í þessu, segir Ólof, ok reiði minnar, en nú vil ek bjóða þér til mín með sæmd ok virðingu ok gera til þín í alla staði eptir því, sem ek kann bezt“. Yrsa segir: „eigi veit´ek, hverninn þat gefz, en eigi mun ek hér vera, þegar ek veit þessi ódæmi, sem á liggja“. Hún hittir síðan Helga konung ok segir honum, hversu þungliga er til komit. Konungr sagði: „ærit grimma áttu móðurina, en þat vilda ek, at svá búit væri“. Hún kvað ekki svá búit vera mega, at þau sé samvistum þaðan í frá. Ferr Yrsa nú með Ólofu drotningu ok er í Saxlandi um hríð. Svá bítr þetta á Helga konung, at hann lagðiz í rekkju ok var allókátr. Ekki þótti þá annarr kostr betri en þar, sem Yrsa var, en þó gerðuz konungar seint til at biðja hennar, ok bar þat mest til, at aldrei þótti ørvænt, at Helgi kæmi eptir henni ok léti sér mislika, ef hún væri gipt ǫðrum.

**Kap. 11.** Aðils hét konungr, ríkr ok ágjarn; hann réð fyrir Svíaríki ok sat at Uppsǫlum; hann spyrr til þessarar konu Yrsu ok býr síðan skip sín; hann ferr á fund þeira Ólofar ok Yrsu. Ólof gerir veizlu

1. þat: þetta *B.* 2. una: sem ek vil *tf. B.* 4. þér þykkir: þú ætlar *B.* 6. ætla: veit *B.* vera: *ul. B.* 15. er— komit: komit sé *B.* 17. væri: stæði *BD.* 22. þar: *D*; þat *ABC.* gerðuz: girntust *B.* 24. at*(2)*: *ul. A.* 25. -líka: *D*; þóknaz *ABC.* 27. at: hǫfuðborginni *tf. ABC; ul. D.*

í móti Aðils konungi ok tekr við honum með allri kurteisi; hann biðr Yrsu drotningar sér til eiginkonu. Ólof svarar: „spurt muntu hafa slíkan málavǫxt, sem er á hag hennar, en ekki setjum vér hér syn fyrir með hennar ráði“. Er nú málit borit upp 30 fyrir Yrsu; hún sagði svá, kallaði eigi góðu at skipta — „því *at* þú ert óvinsæll konungr“. Þetta gengr þá fram, hvárt sem hún hefir haft þar um orð fleiri eða færi, ok ferr Aðils í burt með hana, ok er ekki at þessu kvaddr Helgi konungr, því at Aðils þóttiz þeira meiri konungr. Ekki varð Helgi konungr varr við þetta, fyrr en þau koma heim til Svíþjóðar; gerir þá Aðils konungr virðuligt brullaup til hennar. Ok nú spyrr Helgi konungr þetta, ok unir nú við hálfu verr en áðr; hann hvílir í einni útiskemmu ok ekki fleira manna. Ólof er nú burt úr sǫgunni. Þanninn ferr nú fram um hríð. En einn jólaaptan er þess getit, þá *er* Helgi konungr er kominn í rekkju, ok var veðr ilt úti, at komit var við hurðina ok heldr ómáttuliga; honum kom nú í hug, at þat væri ókonungligt, at hann léti þat úti, sem vesalt var, en hann má bjarga því; ferr hann nú ok lýkr upp dyrunum; hann sér, at þar er komit eitthvat fátækt ok tǫtrugt. Þat mælti: „vel hefir þú nú gert, konungr“, ok ferr þat síðan inn í skemmuna. Konungr mælti: „ber á þik hálm ok bjarnfeldi, svá at þik kali eigi“. Þat mælti: „veittu mér rekkju þína, herra, ok vil

---

2. kurteisi: *D*; blíðu *B*; list ok kurteisi *AC*. 4. á: um *tf. B*. 6. sagði svá: *ul. B*. eigi góðu: þá góðum *B*. 7. óvinsæll: óvins *A*. 10. at*(2)*: *ul. AB*. 13. virðuligt: *ul. B*. 14. hennar: Yrsu *B*. 15. unir: *CD*; verðr *A*; varð *B*. 16. úti-: út- *A*. fleira: fleiri *alle*. 18. þá: at *BC*. 20. máttu-: mátu- *ABC*; máttug- *D*. 22. úti: deyja *tf. D*. 24. tǫtrugt: tǫtrótt *B*. 26. skemmuna: *uden art. A*. 27. bjarnfeldi: hey *B*.

ek hjá þér hvíla, því *at* líf mitt er í veði“. Konungr segir: „rís mér hugr við þér, en ef svá er, sem þú segir, þá ligðu hér við stokkinn í klæðum
31 þínum, ok mun mik ekki saka“. Hún gerir nú svá; konungr snýr sér frá henni. Ljós brann í húsinu; ok er stund leið, varð honum litit um ǫxl til hennar; þá sér hann, at þar hvílir kona svá væn, at eigi þykkiz hann aðra konu fríðari sét hafa; hún var í silkikyrtli; hann snýr sér þá skjótt at henni með blíðu. Hún mælti: „nú vil ek fara í burt, segir hún, ok hefir þú leyst mik úr miklum nauðum, því *at* þetta var mér stjúpmóður skǫp, ok hefi ek marga konunga heimsótta, enda ligðu nú eigi með lýtum; vil ek nú hér ekki lengr vera“. „Nei, sagði konungr, engi er þess kostr, at þú farir svá skjótt, ok munu vit eigi svá skilja; skal nú gera til þín skyndibrullaup, því *at* mér líz vel á þik“. „Þér hljótið at ráða, herra“, sagði hún. Ok svá hvíldu þau þá nótt; en um morguninn tekr hún til orða: „meðr lostum hefir þú nú til mín gert, en þat skaltu vita, at vit munum barn eiga; ger nú, sem ek mæli, konungr, vitjaðu barns okkar annan vetr í þetta mund at naustum þínum, eða muntu gjalda, ef þú gerir eigi svá“. Eptir þetta fór hún í burt. Helgi konungr er nú nǫkkut kátari en áðr; líða nú stundir fram ok gefr hann at þessu engan gaum. Ok á þriggja vetra fresti verðr þat til tíðinda, at þar

1. er í v.: liggr við *B*. 5. brann—húsinu: brá í húsit *A*. 7—8. eigi—hafa: hann hafði enga slíka sét *B*. 9. þá skjótt: þegar *B*. 13. enda: ok *B*. ligðu: *B*; leigðu *A*; legðu *CD*. eigi: hjá mér *tf*. *B*. með lýtum: meira til mín *D*; á mik *tf*. *AM. 11*; *hele sætn. er i Sth. 13 omdannet til:* ok hefir engi við mér orðit. 14. vil—vera: *ul*. *B*. 15—17. ok—brullaup: *ul*. *B*. 16. skilja: skjótt *tf*. *A*; fljótt *har D foran* skilja. 18. hvíldu: lágu *B*. 20. lostum: lǫst- *A*; løst- *BC*. 23. eða: enda *CD*.

ríða þrír menn at því sama húsi, sem konungr sefr í, þat var um miðnætti; þeir fóru með meybarn ok 32
settu þat þar niðr hjá húsinu. Kona sú tók til orða, er með barnit fór: „þat skaltu vita, konungr, sagði hún, at ættmenn þínir munu þess gjalda, er þú hafðir þat at engu, sem ek bauð þér, en þú nýtr þess, er þú leystir mik úr nauðum, ok vittú þat, at mær þessi heitir Skuld; hún er okkar dóttir“. Eptir þetta riðu þessir menn í burt. Þetta hafði verit ein álfkona; aldrei varð konungr varr við þessa konu síðan. Skuld vex þar upp ok er brátt grimmúðig í skaplyndi. Þat er sagt eitthvert sinn, at Helgi konungr býr ferð sína úr landi ok ætlar svá at hyggja af harmi sínum; Hrólfr sonr hans er eptir; hann herjar nú víða ok vann mǫrg stórvirki.

**Kap. 12.** Aðils konungr sitr nú at Uppsǫlum. Hann átti tólf berserki ok váru þeir honum til landvarnar ok við ǫllum háska ok ófriði. Helgi konungr býr nú ferð sína til Uppsala at ná í burtu Yrsu; hann kemr þar við land. Ok sem Aðils konungr spyrr þetta, at Helgi konungr er þar kominn við land, þá spyrr hann Yrsu drotningu, hversu hún vill láta fagna Helga konungi. Hún segir: „þú sér þar ráð fyrir, en þú veizt þat áðr, at engi er sá maðr, at mér sé meiri vandi við heldr en hann“. Ok þat sýniz Aðils konungi af, at bjóða honum til veizlu, en ekki ætlar hann, at þetta skuli prettalaust vera. Helgi konungr þekkiz þetta; ferr til veizlu

6. hafðir—engu: helzt þat ei *D*. 9. þessir menn: þau *B*. 12. -úðig: -auðig *ABC*; -úðleg *D*. 22. hann: at *tf. B*. 25. at—vandi: sem ek er meir vandabundin *B*. við: á *CD*. hann: Helgi *B*. 27. ekki—hann: þat ætlar hann sér *B*. prettalaust: með prettum *B*.

með hundrað manna, en fjǫldinn er við skip niðri;
33 Aðils konungr tekr við honum báðum hǫndum. Yrsa drotning ætlar at sætta konungana, ok gerir hún alt sæmiliga til Helga konungs. Helgi konungr verðr svá feginn drotningu, at hann lætr hjá sér líða alt annat; vill hann við hana tala allar þær stundir, sem hann má nýta, ok sitja svá at veizlu. Þat bar til tíðinda, at berserkir Aðils konungs kómu heim; ok þegar þeir' váru við land komnir, ferr Aðils konungr at finna þá, svá *at* ekki verða aðrir vísir; hann biðr þá at fara á skóg þann, sem í millum borgar er ok skipa Helga konungs, ok bað þá þaðan hlaupa at Helga konungi, er hann færi til skipa sinna — „mun ek ok senda lið til fulltings við yðr, ok skal þat koma á bak þeim, svá *at* þeir verði i klofanum, því at ek vil nú um trútt vinna, at Helga konung reki eigi undan, því *at* ek skil, at hann hefir þá ást á drotningu, at ek vil eigi hætta á tiltæki hans“. Helgi konungr sitr nú at veizlunni ok er vandliga leyndr þessu vélræði ok svá drotningin. Yrsa drotning segir Aðils konungi, at hún vill hann gefi stórmannligar gjafir Helga konungi at skilnaði, ok svá gerir Aðils konungr, at hann gefr Helga gull ok gersimar, en ætlaði sjálfum sér reyndar. Ferr Helgi konungr í burt við þetta, ok fylgir Aðils konungr ok drotningin honum á gǫtu, ok skiljaz þau nú drotningin ok konungarnir heldr líkliga. Ok eigi miklu síðar en Aðils konungr

6. sér: *ul. BD.* hann: feginn *tf. B.* 7. nýta—veizlu: *ul. B.* 10. at finna: til fundar við *B.* 13. þaðan: síðan *B.* at: á (H. kg *C*; hann *D*) *CD.* 14—15. fullt.—yðr: yðar *B.* 16. at: *mgl. ABD.* 17. H. kg: Helgi kgr *A.* 20. þessu vélr.: ǫllum þessum vélræðum *B.* 21—22. hún—gefi: hann skuli gefa *B.* 23—24. at skiln.—Helga: *sål. CD; mgl. A.* 23—25. at skiln. —reyndar: *ul. B.* 24. gersimar: hann heitir því *tf. A.*

hafði aptr horfit, urðu þeir Helgi konungr varir við 34 ófrið, ok brestr þegar í bardaga. Helgi konungr gekk vel fram ok barðiz hraustliga, en fyrir ofrefli því, sem í móti var, þá fell þar Helgi konungr með góðan orðstír með mǫrgum sárum ok stórum, ok kom sumt liðit á bak þeim Aðils konungs, ok urðu svá á milli steins ok sleggju. Yrsa drotning varð ekki fyrr vǫr við, en Helgi konungr var fallinn ok lokit var bardaganum; þar fell með Helga alt þat lið sem upp hafði gengit, en hitt flýði heim undan í Danmǫrk.

Ok lýkr hér þætti Helga konungs.

**Kap. 13.** Aðils konungr hrósaði nú sigri ok þóttiz mjǫk hafa framaz, er hann vann konung svá ágætan, sem Helgi var, ok svá víðfrægr. Yrsa drotning mælti: „eigi er einsætt at hælaz svá mjǫk, þótt þú hafir svikit þann mann, sem mér er mestr vandi við ok ek unna mest, ok fyrir þetta hit sama verð ek þér aldri holl, ef þú átt við venzlamenn Helga konungs; berserkjum þínum ræð ek þegar bana, er ek má, ef nǫkkurir eru svá vaskir, at þat vili gera fyrir mínar sakir ok sinnar snildar“. Aðils konungr bað hana at heitaz ekki við sik né berserki sína — „því *at* þat skal þér eigi duga; en ek vil

1. hafði—horfit: er aptr snúinn *B.* urðu—varir: verðr H. kgr varr *B.* 2. ófrið: þat at ófriðr er í skóginum *D.* í bardaga: bardagi *A.* 3. fyrir: með *B.* 4. í móti: fyrir *B.* 5—7. ok*(2)*—sleggju: *ul. B.* 9. lokit—bard.: afstaðinn bardaginn *B.* 10. hafði gengit: gekk með honum *B.* 10—11. undan í D.: til Danmerkr *B.* 13. *Kap. skiftet markeres stærkt i A.* 15. ágætan: ok (víð- *B*) frægan *tf. BC.* ok—víðfr.: *ul. BCD.* 17. er: var *B.* 19. holl: trú *BD.* 21. nǫkkurir *osv.: i sing. CD.* 22. mínar—ok: mik sakir *D*; mín orð ok *B.*

bæta þér fǫðurdauðann stórmannligum gjǫfum
með miklum fjárhlutum ok góðum gersimum, ef þú
kant at þekkjaz". Drotning sefaz við þetta ok
þiggr sæmdir af konungi; hún er þó óhæg síðan í
35 skapsmunum, ok opt sat hún um þat, at gera ber-
serkjum mein ok svívirðu. Aldri finna menn, at
drotning yrði allkát síðan eða í góðu skapi eptir
fall Helga konungs, ok meira varð ósamþykki í hǫll-
inni, en áðr hafði verit, ok ekki vildi drotning sæma
við Aðils konung, ef hún skyldi ráða. Aðils kon-
ungr þóttiz nú stórum frægr geraz, ok þykkir nú
sá mestr maðr vera, er með honum er ok hans
kǫppum; sitr hann nú um hríð í sínu ríki ok hugsar
at engi muni reisa rǫnd við sér ok sínum berserkjum.
Aðils konungr var hinn mesti blótmaðr ok fullr af
fjǫlkyngi.

**Kap. 14.** Einn bóndi er nefndr Svipr; hann bjó í Svíþjóð fjarri ǫðrum mǫnnum; hann var ríkr at fé, ok hafði verit hinn mesti kappi ok eigi í ǫllu þar er hann var séðr, ok kunni hann mart fyrir sér. Þrjá átti hann syni, sem hér eru nefndir; hét einn Svipdagr, annarr Beigaðr, þriði Hvítserkr; hann var þeira elztr; allir váru þeir miklir fyrir sér, sterkir ok vænir at áliti. Ok er Svipdagr var átján vetra gamall, sagði hann svá til fǫður síns einn dag: „dauflig er vár æfi at vera hér við fjǫll uppi
36 í afdǫlum ok óbygðum ok koma aldri til annarra

1. -dauðann: -banann *D.* 2. með—gersimum: *ul. D.* með: ok *B.* -hlutum: -hlut *C.* ok—gersimum: *ul. B.* 4. síðan: *ul. B.* 7. eða .. góðu: *ul. B.* 10. hún skyldi: átti at *B.* skyldi: eigi *tf. D.* 13. hríð: kyrt *D (mulig rigt.).* 14. at: *ul. ACD.* 19—20. í—þar: þar allr *B.* 20. er: *B*; sem *D; ul. AC.* 22. Beigaðr: Beigurðr *A.* 24. at áliti: álits *B.* 25—26. einn dag: *ul. B.* 27. ok ób.: *ul. D.*

manna né aðrir til vár; væri hitt meira snarræði, at fara til Aðils konungs ok ráðaz í sveit með honum ok hans kǫppum, ef hann vildi við oss taka". Svipr karl svarar: „ekki sýniz mér þetta ráðligt, því *at* Aðils konungr er grimmr maðr ok ekki heill, þótt hann láti fagrt, en menn hans ǫfundarfullir ok þó miklir fyrir sér, en víst er Aðils konungr ríkr maðr ok frægr". Svipdagr segir: „hætta verðr á nǫkkut, ef menn skulu fá frama, ok má þat eigi vita, fyrr en reynt er, hvar gipta vill til snúaz, ok víst vil ek hér eigi sitja lengr, hvat sem annat fyrir liggr". Ok sem hann var í þessu ráðinn, þá fekk faðir hans honum øxi mikla, væna ok bitrliga; hann mælti þá við son sinn: „vertu óágjarn við aðra, láttu eigi stórliga, því *at* þat er ilt til orðs, en ver hendr þínar, ef á þik er leitat, því *at* þat er mikilmannligt, at dramba lítit yfir sér, en gera mikil afdrif, ef hann kemr í nǫkkura raun". Hann fær honum ǫll herklæði vǫnduð ok góðan hest. Svipdagr ríðr nú í burt, ok at kveldi kemr hann at borg Aðils konungs; hann sér, at leikar eru úti fyrir hǫllinni, ok sitr Aðils konungr hjá á miklum gullstóli ok berserkir hans hjá honum. Ok sem Svipdagr kemr at skíðgarði, var borgarhliðum læst, því *at* þat var þar siðr, at biðja leyfis inn at ríða; Svipdagr hefir ekki starf fyrir því, brýtr þegar upp hliðit ok ríðr svá í garðinn. Konungr mælti: „þessi maðr ferr ógætiliga, ok hefir þessa aldri fyrr verit 37
freistat; kann vera, at hann eigi mikit undir sér ok

5. grimmr: *BC*; grimmligr *AD*. 11—12. annat—liggr: fyrir snýz *B*. 17. mikil: mikit *C*. 18. nǫkkura: mikla *B*. 19. vǫnduð: *ul. D*. 22. hjá: *ul. A*. 24. skíðgarði: borgarhliði *B*. borgarhl.: þeim *B*; hliðit *skr. CD*. 25. þar: *BC*; þá *A* (þar var sá *skr. B*). 28. þessa: *CD*; þess *AB*.

varðaði eigi, þótt hann reyndi þat“. Berserkir ygldu*z* þegar mjǫk ok þótti þeim hann láta heldr stórliga. Svipdagr ríðr fyrir konung ok kveðr hann vel; kunni hann á því góða list. Aðils konungr spyrr, hverr hann væri; hann segir til sín. Konungr kanna*z* skjótt við hann, ok ætluðu allir at hann mundi vera hin mesta kempa ok mikils háttar. Leikrinn var eigi at síðr drifinn; sez Svipdagr á tré eitt ok horfir á leikinn; berserkirnir líta illa til hans; ok nú mæla þeir til konungs, at þeir muni freista hans. Konungr segir: „þat hygg ek, at hann sé ekki lítill fyrir sér, en vel þykki mér, þótt þit reynið, hvárt hann er slíkr, sem hann þykki*z*“. Síðan drífa menn inn í hǫllina. Berserkir ganga til Svipdags ok spyrja, hvárt hann sé kappi nǫkkurr, er hann lætr svá stórliga; hann sagði*z* vera slíkr sem nǫkkurr þeira einn. Ok við þessi orð hans óx þeim móðr ok kapp, en konungr bað þá vera kyrra um kveldit. Berserkir ygldu*z* ok grenjuðu hátt ok mæltu til Svipdags: „þorir þú at berja*z* við oss, ok þarftu þá fleira í frammi at hafa en stóryrði ein ok damblæti, ok vilju vér reyna hversu mikit þar er fyrir, sem þú ert“. Hann segir: „því vil ek játa, at berja*z*
38 við einn í senn ok vita svá, ef meira vildi at vinna*z*“. Konungi þótti allvel, þótt þeir reyndi með sér. Yrsa drotning mælti: „þessi maðr skal hér vel kominn“. Berserkir svǫruðu henni: „vissu vit þat fyrir, at þú

3. ríðr: þegar *tf. B.* 4. kunni—list: *ul. D.* 5. sín: ok svá (til *tf. BC)* fǫður síns *tf. BCD.* 6. kanna*z*: kenni*z C*; kannaði*z BD.* at: *ul. AB.* 8. drifinn: *ul. CD.* 9. berserkirnir: *CD*; ok sér at þeir *B*; ok segir *A.* 10. muni: vili *C*; munu *D.* 13. þykki*z*: lætr eða þyki*z* vera *B.* 14. til Sv.: fyrir Svipdag *D.* 16—17. nǫkkurr: hverr *D.* 17. þeim: honum *A.* 18. kapp: mikit *tf. B.* 24. ok—vinna*z*: *ul. D.* 25. reyndi: reyndu *AC.* 27. vissu—fyrir: Altjafnt vissu þær þat *D*; lǫngu *tf. B*; fyrri *skr. C.*

vilt oss alla í helju, en heldr erum vér máttar meiri, en vér fǫllum við orð ein eða illan vilja“. Drotning sagði, at ekki yrði at því, at konungr reyndi þat, hvat hann ætti —, „þar sem þér eruð, er hann trúir svá mjǫk á yðr“. Sá berserkr, sem fyrir þeim var, mælti: „ek skal setja þik ok semja dramb þitt, svá at vér skulum óhræddir vera fyrir honum“. Ok um morguninn tókz þar hǫrð hólmganga ok skorti þar eigi stór hǫgg; sáu þat allir, at þessi enn komni kunni sverði at beita með miklu afli, ok hrøkkr berserkrinn allr fyrir honum, ok drepr hann hann þar; ok þegar vill annarr hefna hans, ok ferr hann slíka fǫr; ok eigi léttir hann fyrr en hann hefir drepit þá fjóra. Þá mælti Aðils konungr: „mikinn skaða hefir þú mér gert ok þess skaltu nú gjalda“, ok bað menn upp standa ok drepa hann; í annan stað fær drotning sér lið ok vill veita honum ok kvað konung mega þat sjá, at miklu meira ágæti væri at honum einum, en ǫllum þeim; kemr nú drotning griðum á með þeim, ok þykkir ǫllum Svipdagr vera mikill afreksmaðr. Sitr hann nú á bekk annan gagnvart konungi með ráði Yrsu drotningar; ok sem náttar, litaz hann um ok þykkiz enn oflítit 39
hafa at gert við berserki ok vill egna til fundar við þá, ok þykkir honum þat líkligt, ef þeir sjá hann einn saman, at þeir muni snúa at honum; ok þat gekk eptir því, sem hann ætlaði, því *at* þegar berjaz

1. máttar: *D*; máta *ABC*. 3. yrði: myndi *B*. at*(2)*: af í *D*. 6. setja—ok: *ul. D*. 9. þessi—komni: nýkomni maðr *skr. B*; komumaðr *CD*. 11. allr: undan *tf. A*. hann*(1)*: *D; ul. ABC*. 12. annarr: drepa hann ok *tf. AB*. hans: hins *B*. ferr: *BD*; fær *AC*. 13. ok: *CD*; þá mælti Aðils kgr *A; ul. B*. 17. vill: bað þá *B*. 19. þeim: berserkjum *tf. AD*. 22. með—drotn.: *ul. D*. 24. vill: enn *tf. B*. 26. saman: *ul. D*. snúa: veitaz *B*.

þeir; ok þá kemr konungr at, er þeir hǫfðu bariz um hríð, ok skilr þá. Eptir þat gerir konungr berserki útlæga, þá sem eptir váru, er þeir báru eigi af einum manni allir, ok léz eigi fyrr vitat hafa, at þeir væri svá litlir fyrir sér nema í orðum einum drembiligum. Þeir verða nú í burt at fara, en heitaz við at herja á ríki Aðils konungs; konungr léz aldri hirða um heitingar þeira ok kvað enga dáð í bikkjum þeim; fara þeir nú í burt með skǫmm ok svívirðing. Aðils konungr hafði þó eggjat þá raunar í fyrstunni at ganga at honum ok drepa hann, þá *er* þeir sæi Svipdag einn ganga úr hǫllinni, ok hefna sín svá, at drotning yrði ekki vǫr við; Svipdagr hafði þó drepit einn, þá *er* konungr kom til at skilja þá. Aðils konungr biðr nú Svipdag veita sér eigi minna lið nú en áðr, er honum veittu allir berserkir —, „allra helzt at drotning vill, at þú sér í staðinn berserkjanna“. Þar er nú Svipdagr nǫkkura hríð. Nǫkkuru síðar er konunginum sǫgð hersaga, at berserkir hafa þá fengit sér lið mikit ok herja á land hans. Aðils konungr biðr nú Svipdag at rísa í móti berserkjum ok kallar þat vera hans skyldu ok kveðz skyldu fá honum 40 svá mikit lið, sem hann þyrfti. Ekki er honum um þat, at vera fyrirmaðr hersins, en vill fara með konungi þangat sem hann vildi. Konungr vildi ekki annat, en hann sé fyrirmaðr. Svipdagr segir: „þá

---

1—2. er—hríð: *ul. B.* 2. skilr: skildi *B.* 2—3. berserki: þá *B.* 3. váru: af berserkjum *tf. B.* 7. við: nú *A.* 12. þá—ganga: er hann gengi einn *B.* 13. ok—sín: *ul. B.* 14. þá er: er *C*; áðr *D.* 16. nú: *ul. B.* 16—17. áðr—veittu: *ul. B*; áðr hǫfðu veitt honum *CD.* 18. staðinn bers.: þeira stað *B*; st. þeirra *CD.* 21. land hans: ríki A. kgs *B.* 22. rísa: fara *BD.* 23. skyldu*(2)*: *C*; skyldi *ABD.*

vil ek þiggja tólf manna líf af yðr þá er ek vil". Konungr segir: „því vil ek játa þér". Eptir þat ferr Svipdagr til orrostu þessarrar, en konungr sitr heima; hann hefir mikit lið. Svipdagr lét gera herspora ok kasta niðr, þar sem orrostustaðrinn var markaðr, ok með mǫrgum ǫðrum brǫgðum lét hann þar um búa. Þar tekz orrosta ok harðr bardagi, ok hrǫkk fyrir mjǫk lið víkinga, ok fá þeir ilt af, er þeir kenna hersporanna. Þar var drepinn berserkr einn ok fjǫldi liðs, en þat flýði til skipa, sem eptir lifði, ok svá í burt. Svipdagr kemr nú heim til Aðils konungs ok á nú sigri at hrósa; Aðils konungr þakkar honum nú vel sinn framgang ok landvǫrn. Yrsa drotning mælti: „víst er þat rúm betr skipat, er slíkr drengr sitr í sem Svipdagr er, en þá *er* berserkir þínir skipuðu þat". Konungr sannar þat. Berserkir safna nú liði aptr, þeir sem undan kómuz, ok herja enn á ríki Aðils konungs: ok enn skorar konungr á Svipdag at ganga í móti þeim ok kvaðz mundu fá honum frítt lið. Svipdagr ferr til orrostu ok hefir nú þriðjungi minna lið en berserkir. Aðils konungr hét at koma til móts við hann með hirðina. Svipdagr hafði þá enn skjótara brugðit við en berserkir hugðu; ok nú hittaz þeir, ok tekz þar hǫrð orrosta. Aðils konungr safnar liði 41
ok hafði ætlat at koma í opna skjǫldu berserkjum.

1. þá er: þeira er *D*; þá *A*. 3. þessarrar: með mikit lið *B og ul. det følg.* hann—lið. 5. ok-niðr: *ul. B*; setja *skr. D*. 7. orrosta ok: *ul. C*. orrosta—bardagi: hǫrð orrosta *B*. 13. sinn framg.: sína framgǫngu *CD*. 15. er—Sv. er: sem hann sitr í *B*. 16. þá er: þat *C*. skipuðu þat: váru þar *B*. 17. þat: satt at vera *tf. B*. 21. þriðjungi: *CDB* (-ung); þriðjungs *A*. lið: liðs *B*. 22. móts: liðs *B*. 26. hafði ætlat: ætlar sér *B*. berserkjum: *D; med art. C;* berserkja *AB; herefter nyt kap. i BD.*

Þar er nú til at taka, at Svipr karl er; hann vaknar einn tíma af svefni sínum, blæss mæðiliga ok mælti til sona sinna: „þurfa þykkiz nú Svipdagr liðs við, bróðir ykkarr, því *at* hann heldr bardaga ekki langt heðan ok á við mikinn liðsmun„ ok mist hefir hann auga sitt annat ok hefir þó mǫrg sár ǫnnur, en felda hefir hann þrjá berserki, ok nú eru eptir aðrir þrír“. Þeir bræðr bregða við skjótt ok vápna sik; fara síðan þangat sem orrostan er, ok hǫfðu víkingar lið hálfu fleira. Svipdagr hafði mikit af sér gert ok er þó þá sárr mjǫk ok úr honum annat augat; er þá drepit lið hans at handamáli, en konungr kemr ekki til liðs við hann. Ok sem þeir bræðr hans koma til orrostu, þá ganga þeir vel fram ok þar at sem berserkir eru fyrir; svá fór leikr með þeim, at berserkir falla þar allir fyrir þeim bræðrum; snýr nú skjótt mannfall í lið víkinga, ok þeir, sem lífit þágu, gengu á hendr þeim bræðrum. Ok eptir þetta fara þeir á fund Aðils konungs ok sǫgðu honum þessi tíðindi; konungr þakkar þeim vel þrekvirki þetta. Svipdagr hafði fengit tvau sár á hǫndum; hann hafði mikit sár á hǫfði ok var einsýnn alla æfi síðan; liggr hann um hríð í sárum þessum, ok græddi Yrsa drotning hann.
42 En þá *er* hann var orðinn vel heill, þá sagði hann konungi, at hann vildi í burtu þaðan — „vil ek sækja heim þann konung, sem meira sóma vill til vár gera en þú, konungr; illa hefir þú launat mér

1. er; hann: *ul. B.* 2. einn tíma: *ul. B.* 3—4. liðs við br. y.: *omv. BCD.* 6. hefir þó: þar með fengit *C.* 7. felda: *CD*; felt *AB.* 11. þá: orðinn *CD (der også ul.* þó*).* úr—augat: mist hefr hann auga sitt annat *D.* 17. -fall: -falli *D*; -fallinu *C.* 18. hendr: hǫnd *B.* 22. hafði: ok *tf. C.* 25. vel: *ul. B.* 26. þaðan: fara *B.* 27. meira sóma: betr *B.* 28. gera: ok meiri sóma veita *tf. B.*

landvǫrn ok slíkan sigr, sem vér hǫfum yðr unnit“. Aðils konungr bað hann heima vera ok léz mundu gera allvel til þeira bræðra ok kvaðz enga skyldu meta fram yfir þá. Svipdagr vill ekki annat en ríða burt ok mest fyrir þat, at Aðils konungr kom eigi fyrr til bardagans en lokit var, því *at* hann var tvískiptr í, hvárir sigrinn hlyti, Svipdagr eða berserkir, því at konungr var þar í skógi einum ok horfði þaðan á leik þeira ok átti kost at fara, þegar hann vildi, en honum þótti raunar ekki máli skipta, þótt Svipdagr fengi ósigr ok styngi niðr nǫsum.

**Kap. 15.** Nú búaz þeir bræðr í burt ok stoðar ekki at hamla þeim. Aðils konungr spyrr eptir, hvert þeir ætli at fara; þeir kváðuz ekki svá ráð hafa gert fyrir því, — „en skilja munu vér at sinni; vil ek nú kynna mér annarra manna siðu ok konunga, en eldaz eigi hér í Svíþjóð“. Þeir ganga nú til hesta sinna ok þakka drotningu vel þann sóma, sem hún hafði gert til Svipdags; stíga nú á hesta sína ok ríða alla sína leið, þar til er þeir koma til fǫður síns, ok spyrja hann ráða, hvat upp skal taka — „eða hvat skulum vér af snúa?“. Hann kallaði þat mestan frama, at vera með Hrólfi konungi í 43
Danmǫrk ok kǫppum hans, — „ok þar er yðr vænast til nǫkkurs frama, til at stǫðva yðvarn ofsa, því *at* ek hefi þat sannspurt, at þangat sé komnir hinir

1. vér—yðr: ek hefi þér *B.* unnit: ok vit bræðr *tf. B.* 2. heima: kyrran *B.* 6. lokit var: orrostan var úti *B.* 7. hvárir: *B*; hverr *ACD.* 11. fengi: hefði fundit *C* (*og* stungit). ok—nǫsum: *ul. D.* 14. fara: ferðaz *B.* 16. manna: konunga *C og ul.* ok kga (*dette ul. også B*). 19—20. stíga—ríða: þeir ríða nú *B.* hesta sína: bak *CD.* 21—22. upp—snúa: þeir skulu af ráða *D.* 22. hvat—af: af skyldi *B.* 26. komnir: allir *tf. B.*

mestu kappar á norðrlǫndum". „Hverninn er honum háttat?", segir Svipdagr. Faðir hans segir: „svá er mér sagt frá Hrólfi konungi, at hann sé ǫrr ok stórgjǫfull, trúfastr ok vinavandr, svá at hans jafningi mun eigi finnaz; hann sparir eigi gull né gersemar nær við alla, er þiggja vilja; hann er lágligr at líta, en mikill at reyna ok torveldr, manna fríðastr, stórlátr við ómilda, en ljúfr ok hógværr við vesala ok við alla þá, sem ekki brjóta bág í móti honum; manna lítillátastr, svá at jafnblítt svarar hann fátækum sem ríkum; svá er hann mikill ágætismaðr, at hans nafn mun eigi fyrnaz á meðan verǫldin er bygð; hann hefir ok skattgilt alla konunga þá, sem eru í nánd honum, því *at* allir vilja honum fúsir þjóna". Svipdagr segir: „hér hefir þú þá sǫgu at segja, at ek em ráðinn í, at fara á fund Hrólfs konungs ok allir vér bræðr, ef hann vill taka við oss". Svipr bóndi mælti: „þér munuð ráða ferðum yðar ok athǫfnum, en bezt þætti mér, at þér værið heima með mér". Þeir kváðu, at ekki mundi þess tjá at leita. Síðan báðu þeir fǫður sinn vel lifa ok svá móður, en þeir fara leið sína á burt ok alt þar til, er þeir
44 kómu á fund Hrólfs konungs. Svipdagr gekk þegar fyrir konung ok kvaddi hann; konungr spyrr, hverr hann væri. Svipdagr segir honum nafn sitt ok svá allra þeira ok kveðz hafa verit með Aðils konungi um hríð. Hrólfr konungr mælti: „hvar fyrir fórtu hingat, því *at* ekki er mikil vinátta á milli Aðils ok várra manna?". Svipdagr sagði: „veit ek þat,

8. hógværr: hægr *C*; lítillátr *D*. 12. mun: uppi ok *tf. B*. er bygð: varir *B*; stendr *D*. 15. þá—segja: sagt þá sǫgu *B*. 20. at—leita: þess mundi ekki tjá at letja *B*. 24. fyrir kg.: á fund Hrólfs kgs *B*. 28—29. Aðils ... várra: vár ... Aðils *C*.

herra, þó vil ek leitaz við at geraz yðarr maðr, ef kostr er á, ok vér bræðr allir, en þó mun yðr þykkja litit koma til vár". Konungr segir: „ekki hafða ek þat ætlat, at gera mér vini af mǫnnum Aðils konungs, en fyrst þér hafið sótt á minn fund, þá mun ek taka við ykkr, því at ek hygg, at sá hafi betr, er ykkr vísar ekki frá, því at ek sé, at þit eruð gildir garpar; hefi ek spurt, at þit hafið mikla frægð unnit, drepit berserki Aðils konungs ok unnit mǫrg þrekvirki ǫnnur." „Hvar vísar þú mér til sætis?". sagði Svipdagr. Konungr segir: „sitið hjá þeim manni, er Bjálki heitir, ok látið liggja tólf manna rúm innar frá ykkr". Heitit hafði Svipdagr Aðils konungi at koma til hans, áðr hann færi í burt. Nú ganga þeir bræðr til rúms þess, sem konungr hafði vísat þeim. Svipdagr spurði Bjálka, hví þau rúm skyldi auð liggja innar frá þeim. Bjálki segir, at þar siti berserkir tólf konungsins, þá *er* þeir kæmi heim; þeir váru þá í hernaði. Skúr hét dóttir Hrólfs konungs, en ǫnnur Drífa; hún var heima með konunginum ok allra kvenna kurteisust. Drífu [45] var vel til þeira bræðra ok þokkaði alt heldr vel fyrir þeim. Svá fór nú fram um sumarit ok alt þar til *er* berserkir kómu heim um haustit til hirðarinnar; ok eptir siðum sínum þá gengu þeir fyrir hvern mann, er þeir kómu í hǫllina, ok spurði sá, er fyrir þeim gekk, hvárt sá teldiz jafnsnjallr honum, sem fyrir sat, ok leituðu menn sér þar ýmsra

8. garpar: kappar *B.* 10. mér: oss *C.* 13. frá: fyrir *A.* 17. innar—þeim: *ul. B.* 18. þar siti: þeir siti þar *A*; þeir *tf. B.* 19. hét: heitir *A.* 20. hún: Drífa *A.* 21. kurteisust: fríðust *B.* 22—23. ok—þeim: *ul. D.* 24. *er*: at *B.* 25. siðum sínum: siðvenju *D.* þá gengu: ganga *C.* 26. er: *sál. BD*; þá *AC.*

atkvæða um, þat sem þeim þótti bezt sóma, ok mátti þat þó heyra á orðum hvers, at þeim þótti sik mikit vanta á at vera jafnsnjalla; ok nú gengr hann fyrir Svipdag ok spyrr, hvárt hann þættiz jafnsnjallr. Svipdagr sprettr upp ok bregðr sverði ok kveðz í engan stað ósnjallari en hann. Berserkr mælti: „hǫgðu þá í hjálminn“. Svipdagr gerði svá, ok beit ekki á, ok síðan vildu þeir berjaz. Hrólfr konungr hljóp í milli þeira ok sagði þeim skyldi þat ekki hlýðaz ok skyldu þeir heita jafnir þaðan í frá — „ok báðir mínir vinir“. Ok eptir þat sættuz þeir ok eru jafnan á einu ráði, liggja í hernaði ok hafa sigr, hvar sem þeir kómu. Hrólfr konungr sendi nú menn til Svíþjóðar á fund Yrsu drotningar, móður sinnar, ok bað hana at senda sér fé þat, sem Helgi konungr hafði átt, faðir hans, ok Aðils konungr hefði tekit til sín, þá er Helgi konungr var drepinn. Yrsa kvað þat makligt, at hún kæmi því áleiðis, ef henni væri þat mǫguligt — „en ef þú
46 leitar sjálfr eptir fénu, þá skal ek þér holl í ráðum, sonr minn, en Aðils konungr er maðr svá fégjarn, at hann hirðir aldri, hvat hann vinnr til þess“ —, ok svá bað hún segja Hrólfi konungi ok sendi honum þar með sæmiligar gjafir.

**Kap. 16.** Hrólfr konungr liggr nú í hernaði, ok dvelz nú fyrir þat, at hann fari til fundar við Aðils konung; hann kemr nú undir sik miklum afla, ok alla konunga, sem hann finnr, þá gerir hann skattgilda undir sik, ok bar þat mest til, at allir hinir

---

2. þeim: *B*; þá *ACD*. 4. þættiz: teldiz *B*. 13. hafa: jafnan *tf. B*. 17. hefði: hafði *CD*. 18. at: *C*; þó *ABD*. því: til *tf. A*. 22. -gjarn: *CD*; ágjarn *AB*.

mestu kappar vildu með honum vera ok engum ǫðrum þjóna, því *at* hann var miklu mildari af fé en nǫkkurir konungar aðrir. Hrólfr konungr setti þar hǫfuðstað sinn, sem Hleiðargarðr heitir; þat er í Danmǫrk ok er mikil borg ok sterk, ok meiri rausn ok hoffrakt var þar en nǫkkur staðar, ok í ǫllu því sem til stórlætis kom eða nǫkkurr hafði spurn af. Hjǫrvarðr hét einn ríkr konungr; hann fekk Skuldar, dóttur Helga konungs, en systur Hrólfs konungs; þat var gert með ráði Aðils konungs ok Yrsu drotningar ok Hrólfs bróður hennar. Ok eitt hvert sinn bauð Hrólfr konungr Hjǫrvarði mági sínum til veizlu. Þat var einn dag, er hann var at veizlunni, at svá bar til at þeir váru úti staddir konungarnir, at Hrólfr konungr brá brókabelti sínu ok fekk Hjǫrvarði konungi á meðan sverð sitt; ok sem Hrólfr konungr hafði brugðit um sik aptr bróka- 47
beltinu, tók hann aptr við sverðinu ok mælti til Hjǫrvarðs konungs: „þat vitu vit báðir, sagði hann, at þat hefir lengi verit mælt, at sá skal vera undirmaðr annars jafnan síðan, er tekr við sverði annars, á meðan hann bregðr brókabelti; skaltu nú vera undirkonungr minn ok þola þat vel sem aðrir“. Hjǫrvarðr varð þessu ákafliga reiðr ok verðr þó at láta svá standa; ferr heim við svá búit ok unir illa við sinn hlut; seldi þó skatt Hrólfi konungi eptir því sem aðrir hans undirkonungar, þeir sem honum áttu hlýðni at veita.

Ok endar hér Svipdags þátt.

---

1. mestu: beztu *C.* 6. -frakt: -phract *B.* ok*(2)*: *ul. C.* 7. eða—hafði: ok menn hǫfðu *C.* 9. dóttur—en: *ul. C.* 22. -belti: sínu *tf. B.* 26. hlut: hag *B.*

**Kap. 17.** Þar er nú til máls at taka, at norðr í Nóregi fyrir Uppdǫlum réð sá konungr, er Hringr hét. Hann átti þann son, er Bjǫrn hét. Þat er nú sagt, at drotning andaðiz, ok þótti þat mikill skaði konungi ok mǫrgum ǫðrum út í frá. Landsmenn ok ráðuneyti hans báðu hann kvángaz aptr, ok þat verðr, at hann sendir menn suðr í lǫnd at biðja sér konu; en á móti þeim kómu andviðri mikil ok stórir stormar, ok verða nú at snúa stǫfnum ok halda undan veðrinu; ok þar kemr máli, at þá rekr norðr á Finnmǫrk ok váru þar um vetrinn. Þeir fóru einn dag á land upp ok kómu at húsi einu; þar sátu inni tvær konur, vænar at áliti; þær fǫgnuðu þeim vel ok spurðu, hvaðan þeir væri at komnir. Þeir sǫgðu alt
48 um ferðir sínar ok hvat at erendum var; þeir spurðu, hvaða konum þær væri eða fyrir hverja sǫk þær væri komnar þar einmana ok svá langt frá ǫðrum mǫnnum, svá fríðar konur ok vænar. Sú eldri sagði: „til als ber nǫkkut, sveinar; vér erum hér fyrir þær sakir, at einn ríkr konungr bað dóttur minnar, en hún vildi ekki eiga hann, en hann hét henni afarkostum aptr í mót, ok því hefi ek hana hér í leyni, á meðan faðir hennar kemr ekki heim, því *at* hann liggr í hernaði“. Þeir spurðu, hverr hennar faðir væri; móðir hennar sagði: „hún er dóttir Finna konungs“. Þeir spurðu, hvat þær héti. Sú eldri sagði: „ek heiti Ingibjǫrg, en Hvít heitir

---

4. drotning: tók sótt ok *tf. B.* 5. Landsmenn ok: Landsins *B*; ok *mgl. A.* 5—6. ok—hans: *ul. D.* 6. kvángaz: kvænaz *B.* 7. suðr—lǫnd: *ul. D.* biðja: sækja *D.* konu: aptr *tf. D.* 8. mikil: *ul. B.* 9. stǫfnum—halda: *ul. D*; ok halda *ul. B.* 10. máli: *ul. CD.* 16. konum: konur *B.* 22. aptr í mót: *ul. B.* 23. í leyni: á laun *B.* kemr—heim: er ekki heima *B.* 26. héti: heita *C*; heiti *D.* 27. Sú: Hin *B.*

dóttir mín; er ek frilla Finna konungs“. Ein mær var þar at þjóna þeim. Konungsmǫnnum leiz vel á þær, ok þat er ráðagerð þeira, at leitaz eptir. ef Hvít vildi fara með þeim ok giptaz Hringi konungi; bar sá þetta mál upp fyrir hana, sem fyrir konungs erendum var. Hún svaraði þessu ekki fljótt. en veik þó til forsjá móður sinnar. „Svá er, sem mælt er, at úr hverju vandræði verðr nǫkkut at ráða, sagði móðir hennar, ok þykki mér illa, at faðir hennar er gerr fornspurðr at þessu, en þó verðr á þetta at hætta, ef hún skal at nǫkkuru nær vera“. Eptir þetta býz hún til ferðar með þeim. Síðan fóru þeir leið sína ok fundu Hring konung, ok þegar fréttu sendimenn eptir, hvárt konungr vildi eiga þessa konu, eða færi hún aptr sǫmu leið. Konungi leiz vel á vífit ok gerði þegar brullaup til hennar; vill hann ekki gefa gaum at, þótt hún sé 49
eigi rík; er konungr nǫkkut við aldr, ok fanz þat brátt á drotningu.

**Kap. 18.** Karl einn átti þar bú skamt frá konungi; hann átti sér konu ok dóttur eina barna, er Bera hét; hún var á ungum aldri ok væn at áliti. Bjǫrn konungsson ok Bera karlsdóttir léku barnleikum saman, ok fellz vel á með þeim. Karl var auðugr at fé ok hafði lengi legit í hernaði á unga aldri ok var hinn mesti kappi. Þau Bera ok Bjǫrn unnu hvárt ǫðru mikit ok hittuz þau jafnan; liðu nú svá stundir fram, at ekki verðr til tíðinda; þroskaz Bjǫrn konungsson mikit ok geriz hann bæði

3. eptir: við *B.* 5. fyrir: við *B.* 7. forsjá: *ul. B.* 9. illa: ilt *B.* 15. konu: kvinnu *A.* sǫmu: sína *C.* 17. vill—gefa: gefr hann engan *C.* þótt: at *tf. A.* 20. átti—bú: bjó *B.* 25. at: af *B.* 25—26. á—aldri: *efter* kappi *C.*

mikill ok sterkr; hann var vel mannaðr um allar íþróttir. Hringr konungr var lǫngum úr landi ok í hernaði, en Hvít var heima ok stjórnaði landi; ekki var hún vinsæl af alþýðu, en við Bjǫrn lét hún allblítt, en hann þektiz þat lítt. Ok eitt sinn, er konungr fór heiman, ræddi drotning við Hring konung, at Bjǫrn sonr hans skyldi heima vera með henni til landstjórnar; konungi þótti þat ráðligt. Gerðiz drotning nú ríklunduð ok drambsǫm. Konungr sagði syni sínum Birni, at hann skuli vera heima ok gæta lands með drotningu; Bjǫrn sagði sér lítit
50 um þat vera ok sagði, at sér sé stórilla til drotningar; konungr sagði, at hann skyldi eptir vera; ferr konungr nú úr landi með miklu fjǫlmenni.

**Kap. 19.** Bjǫrn gengr nú heim eptir viðtal þèira fǫður hans, ok þótti mjǫk sinn veg hvárum þeira; hann gekk til rúms síns ok var heldr fákátr ok var rauðr sem blóð; drotning gengr til tals við hann ok vill gleðja hann ok mælti til vináttu við Bjǫrn; hann bað hana í burtu fara; hún gerir svá at sinni. Opt kom hún þó at máli við hann ok sagði, at þat væri vel fallit, at þau bygði eina rekkju, á meðan konungr væri í burtu, ok kallaði miklu betri þeira samvistu, en þat hún ætti svá gamlan mann sem Hringr konungr var. Bjǫrn tekr þessu máli þungliga ok sló hana kinnhest mikinn ok bað hana dragaz í burt ok hratt henni frá sér. Hún kvaðz þessu óvǫn, at hún væri hrøkt eða barin — „ok þykki þér betra, Bjǫrn, at spenna heldr karls-

2. úr—ok: *ul. C.* 8. -stjórnar: -varnar *B.* 9. -sǫm: gjǫrn *B.* 12. sér sé: *omv. A (ikke A1).* 16. mjǫk: *ul. B.* 18. blóð: í andliti *tf. B.* 19—20. til—Bj.: blíðliga til hans *C.* við Bj.: *ul. B.* 21. þó: *ul. B.* 27. burt: *her har C* frá sér. henni: í burt *tf. C.* 29. heldr: Beru *B.*

dóttur, ok er þér þat makligt, sem verra er ok svívirðiligra en njóta minnar ástar ok blíðu, ok væri þat ekki fjærri, þótt nǫkkut kæmi í mót þrá þinni ok heimsku". Hún lýstr nú til hans með úlfhanzka ok segir, at hann skyldi verða at einum híðbirni ólmum ok grimmum — „ok nýta þér þó enga fæzlu aðra en fé fǫður þíns; skaltu drepa þat þér til matar meir en dæmi sé til, ok aldrei skaltu úr þessum álǫgum fara, ok skal þér þessi minning verri en engi".

**Kap. 20.** Eptir þat hverfr Bjǫrn í burt, ok veit engi hvat af honum verðr; ok er menn sakna Bjarnar, 51
þá er hans farit at leita, ok finz hann hvergi, sem líkligt er. Frá því er nú at segja, at fé konungs er drepit niðr at handamáli, ok einn grábjǫrn legz á þat bæði mikill ok grimligr. Eitt kveld berr þat til, at karlsdóttir sér þenna hinn grimma bjǫrn; bjǫrn ferr at henni ok lætr allblítt við hana; í þessum birni þykkiz hún kenna augu Bjarnar konungssonar, ok forðaz hún þat lítt; dýrit gengr þá frá henni, en hún ferr eptir því ok alt til þess *er* þat kemr at helli nǫkkurum; ok sem hún kemr at hellinum, þá er þar maðr fyrir ok heilsar Beru karlsdóttur; hún kennir, at þetta er Bjǫrn Hringsson, ok verðr þar mikill fagnaðarfundr. Þar eru þau í

1. verra er: *sål. CD*; ván er á *(ul. B) AB.* 3—4. þrá þinni: *ABD* (*men her rettet til* þrái þínu); þrái *efter* heimsku þinni ok *(sål.) C.* 5. hanzka: sínum *tf. D.* 7. þat: *ul. B* (*og altså ingen interpunktion efter* þíns). 9. fara: komaz *B.* 10. verri: betri *D.* 11. þat: þetta *BCD.* 12. Bjarnar: hans *B*; Bjǫrns *A og B her og i det følg.* 13. þá—leita: er at honum leitat *D*; leita þeir hans nærri ok fjærri *B.* 14. er*(1)*: var *B.* 16. grimligr: grimmr *B.* 17. at: Bera *tf. B.* þenna —bjǫrn: þetta dýr hit grimma *B.* 18. bjǫrn: þat *B.*

hellinum um hríð, því *at* hún vildi ekki skiljaz við hann, á meðan hún á kost; hann kallar henni þat ósæmiligt at vera þar hjá honum, því *at* hann sé dýr um daga en maðr um nætr. Hringr konungr kemr nú heim úr hernaðinum, ok er honum sagt, hver tíðindi til hafa borit, á meðan hann hefir verit í burt, hvarf Bjarnar sonar hans ok þat annat um þat mikla dýr, sem komit væri í landit ok mest legðiz á sjálfs hans fé. Drotning eggjaði fast at láta drepa dýrit, en þó frestaðiz þat um hríð; lætr konungr sér fátt um þetta finnaz ok þykkir með
52 undarligu móti vera. Einhverja nótt, er þau Bera váru í rekkju sinni ok Bjǫrn konungsson, tók Bjǫrn til orða ok mælti: „svá grunar mik, at banadagr minn muni vera á morgun, ok munu þeir fá mik veiddan, enda þykki mér ekki gaman at lífinu fyrir óskǫpum þeim, sem á mér liggja, þó *at* þat eina sé mér til yndis, sem vit erum bæði, en þó mun því nú bregða. Hring þenna mun ek gefa þér, er undir vinstri hendi mér er. Þú munt sjá liðit á morgin, sem at mér sækir, ok þá *er* ek er dauðr, farðu til konungsins ok biddu hann at gefa þér þat, sem er undir bóg dýrsins vinstra megin, en hann mun því játa þér; drotning mun gruna þik, þá er þú ætlar í burt, ok mun hún gefa þér at eta af dýrsslátrinu, en þat skyldir þú eigi eta, því *at* þú ert kona eigi heil, sem þú veizt, ok muntu fæða

---

1. skiljaz: skilja *C.* 2. á kost: má *B*; á *tf. D.* 6. hver—hafa: hvat tíðinda við hafi *B*; *efter* tíð. *tf. A:* at. borit: fallit *C.* 7. Bj.: *ul. B.* 8—9. komit—legðiz: legz *B.* 10. láta: *ul. C.* 12—13. Bera—kgsson: Bjǫrn ok Bera lágu í einni rekkju *B*; Bera ok Bj. váru í rekkju *D.* 12. Bera: ok kgsson *tf. C og ul.* ok—kgsson. 14. svá: Nú *C.* 16. lífinu: lifa *D.* 18. vit—bæði: þú ert *C*; saman *tf. B.* 21. sækir: ferr *B.* 23. þat: *ul. A.* 24. gruna: um *tf. C.*

sveina þrjá, er vit munum eiga, ok á þeim mun þat sjá, ef þú etr af dýrsslátrinu, en drotning þessi er hit mesta trǫll. Síðan far þú heim til fǫður þíns ok þar muntu fæða sveinana; einn mun þér þó beztr þykja; ok ef þú mátt eigi annaz þá heima fyrir óskǫpum þeira ok ófyrirleitni, leiddu þá í burtu ok farðu hingat til hellisins með þá. Hér muntu sjá kistu með þrimr gólfum; þat munu segja rúnir þær, sem þar eru hjá, hvat hverr þeira skal eignaz; vápn þrjú eru í berginu, ok skal þat hverr hafa, sem honum er ætlat. Sá sem fyrst kemr til sonr okkar skal Elgfróði heita, annarr Þórir, þriði 53
Bǫðvarr, ok þykki mér þat líkara, at þeir verði eigi litlir fyrir sér, ok þeira nǫfn munu lengi uppi vera“. Hann segir henni fyrir marga hluti, ok steypiz síðan bjarnarhamrinn yfir hann, ok gengr bjǫrninn svá út ok hún eptir honum ok litaz um ok þá sér hún koma mikit lið fram fyrir fjallsǫxlina, ok fara margir hundar ok stórir fyrir liðinu. Bjǫrninn rennr nú frá hellinum ok með fjallinu fram; koma hundarnir ok konungsmenninir í móti honum, ok varð hann þeim torsóttr; meiddi hann marga menn fyrir þeim, áðr hann yrði sóttr, ok alla hunda deyddi hann. Þar kom at þeir slógu hring um hann, ok sveimaði hann þá innan um hringinn ok sér, í hvert efni komit er, at hann fær eigi undan komiz; snýr hann þá þangat, sem konungr stendr, ok þrífr þann mann,

2. dýrs-: dýr- *A.* 5. beztr: *sål. CD;* verstr *AB.* 6—7. leiddu —ok: *ul. C.* í—farðu . . með þá: *ul. D.* 8. gólfum: gǫflum *B*; hvólfum *D.* segja: þeim *tf. D.* 9. hjá: á *C*; þá *D.* eignaz: af fé *tf. B.* 10. þrjú: þrenn *B.* 11. sonr: sona *C.* 12. Elgfr.: Fróði *B.* Elgfr. . . . Þórir: *ombyttet; omv. alle hds.; jfr. det følg.* 13. þat: þess *A.* 15. marga: óorðna *tf. B.* 17. ok(2): er hún *tf. C og ul. det følg.* ok. litaz: hún *tf. DB.* 22. fyrir þeim: *ul. B.* 23. yrði: varð *B.* 27. stendr: er fyrir *B.*

sem næstr stóð honum, ok reif hann kvikan í sundr; þá var bjǫrninn svá móðr, at hann kastaði sér flǫtum niðr; hlaupa þeir þá skjótt at ok drepa hann. Þetta sér karlsdóttir; hún gengr at konungi ok mælti: „vili þér, herra, gefa mér þat, sem undir vinstra bóg dýrsins er?“. Konungr játaði því, sagði þat eitt mundu þar vera, at honum mundi vel sóma at veita henni þat. Konungsmenn hǫfðu þá flegit bjǫrninn mjǫk; Bera gekk þá at ok tók í burt hringinn ok
54 varðveitti, en eigi sáu menn, hvat hún tók, enda var þar ekki eptir leitat. Konungr spyrr, hver hún væri, því *at* hann kendi hana eigi; hún sagði til sín sem henni sýndiz ok annat en var. Konungr ferr nú heim ok er Bera í ferð með konungi; drotning var allkát ok tók vel við henni ok frétti, hver hún væri; hún sagði sem fyrr eigi hit sanna til. Drotning gerir nú veizlu mikla ok lætr búa bjarnarslátrit til fagnaðar mǫnnum. Karlsdóttir er í skemmu drotningar ok náir eigi burt at fara, því *at* drotningu grunar, hver hún muni vera, ok þar kemr drotning með disk vánum bráðara — var þar á bjarnarholdit — ok bað Beru neyta. Hún vildi eigi eta. „Þetta eru firn mikil, segir drotning, at þú trumsar við fagnaði þessum, er drotning sjálf virðiz at bjóða þér, ok tak við skjótt, elligar skal þér annarr verri“. Hún bitar fyrir hana, ok þat verðr af leiknum, at hún etr þann bita; drotning skerr þá annan ok lætr í munn henni, ok þar kemr lítit korn niðr af þeim bita, ok sló þá úr munni

7. þar: *ul. B.* honum: sér *B.* 13. ok: þó *tf. C.* 14. er: *sål. C*; var *D; ul. AB.* í ferð: *ul. B.* 19. fara: komaz *B.* 20. muni vera: er *B.* 21. vánum bráðara: *ul. D.* 22. -holdit: -slátrit *B.* 24. trumsar: *med* n *A.* 26. verri: kostr gǫrr *tf. C.* 27. leiknum: *ul. D.* 29. ok: hún *C.* þá: hún *B.*

sér ok kveðz eigi meir mundu eta, þó *at* hún píndi hana eða deyddi. Drotning mælti: „vera kann at nú dugi nǫkkut“, ok hló at. Síðan fór Bera í burt ok heim til fǫður síns; hún hefir óhæga hǫfn meðferðar. Hún sagði nú fǫður sínum alla málavǫxtu um sitt ráð, hverninn háttat er; ok litlu síðar tók hún sótt ok fæddi sveinbarn þó nǫkkut með undarligum hætti; þat var maðr upp en elgr niðr frá 55
nafla; hann er nefndr Elgfróði. Annarr sveinn kemr þar til ok er kallaðr Þórir; hundsfætr váru á honum frá rist, ok því var hann kallaðr Þórir hundsfótr; hann var maðr fríðastr sýnum fyrir annat. Hinn þriði sveinn kom til ok var sá þeira vænstr; sá er kallaðr Bǫðvarr, ok var honum ekki neitt til lýta. Bǫðvari ann hún mest. Þeir renna nú upp sem gras; ok þá *er* þeir eru at leikum með ǫðrum mǫnnum, eru þeir grimmir ok óvægnir um alt; fá menn harðleikit af þeim; meiðir Fróði marga menn fyrir konungi en deyddi suma með ǫllu. Svá fór fram um hríð, þar til at þeir eru tólf vetra gamlir; þeir eru þá svá sterkir, at engir konungsmenn stóðuz fyrir þeim, ok mega þá ekki at leikum vera. Þá sagði Fróði móður sinni, at hann vill fara í burt — „ok má ek ekki við menn eiga, því *at* þeir eru ǫlmusur einar ok meiðaz, þá *er* við er komit“. Hún sagði honum ekki hent í fjǫlmenni fyrir óvægni sína. Móðir hans ferr nú með honum til hellisins ok vísar

2. Drotn.: hló at ok *tf. B og ul. det følg.* ok hló at. 7. þó nǫkkut: þat var *B.* 10. til: næst *B.* 12. fyrir annat: *ul. D;* en þetta *tf. B.* 13. þeirra: allra *A.* vænstr: fríðastr *B.* 14. til: meins eða *tf. B.* 17. -vægnir: -vægir *B.* fá: opt fengu *B.* 22. stóðuz: stóðu *B.* fyrir: við *CD.* 24. ǫlmusur: ǫlmislur *B*; mýslur *D.* 25. meiðaz: strax *tf. ACD.* þá er: ef *B.* 26. -vægni: -vægi *B.* 27. Móðir—vísar: Hún vísar honum til hellisins ok segir *D (mulig rigt.).*

honum til þess fjár, sem faðir hans hafði honum ætlat, því *at* Bjǫrn hafði þat alt á kveðit, hvat hverr skyldi hafa. Fróði vildi taka meira ok náði ekki, því at þat var minst féit, sem honum var ætlat; ok nú sér hann hvar vápnin taka fram úr berginu; tekr hann fyrst til hjaltanna, ok er sverðit fast, svá *at* hann náir því eigi; þá þrífr hann til
56 øxarskaptsins, ok er eigi lausara. Þá mælti Elgfróði: „má vera, at sá einn hafi ætlat, er gripum þessum hefir hér komit, at vápnaskipti skuli fara eptir fjárskiptum ǫðrum“ —, þrífr nú til heptisins, ok var þat þegar laust; þar fylgdi ein skálm heptinu; hann leit á skálmina um hríð ok mælti síðan: „ójafngjarn hefir sá verit, er þessum gripum hefir átt at skipta“; leggr nú skálminni tveim hǫndum í bergit ok vill brjóta hana í sundr, en skálmin hljóp inn í bergit, svá at skelliz við heptit, en þó brotnaði hún ekki at heldr. Þá mælti Elgfróði: „hvat mun varða, hverninn ek fer með óþokkagrip þenna, því *at* ekki er ørvænt at bíta kunni“. Eptir þat ferr hann í burt ok kvaddi ekki móður sína at skilnaði. Fróði ferr nú á kjalveg einn ok geriz þar illvirki ok drepr menn til fjár sér ok smíðar sér skála ok býz þar um.

**Kap. 21.** Hringr konungr þykkiz nú vita, hverjum kynstrum þetta muni gegna alt saman ok hefir ekki orð um þat fyrir alþýðu ok lætr þó vera kyrt

2. þat alt: *ul. B.* 3. hafa: eignaz *B.* 5. taka: koma *CD*; standa *B.* 6. hjaltanna: sverðsins *tf. B og ul.* sverðit. 7. svá—eigi: *ul. B.* 7—8. til øxarsk.: øxina *B* (*og* lausari). 9. hafi: svá til *tf. C.* 21. ferr—ok: *sål. CD* (fór); *ul. AB.* ekki: *sål. CD*; hann *AB.* sína: ferr hann burt *tf. A.* 22. Fróði—nú: ok ferr *B.* 23. -virki: *CD*; -virkr *AB.* 27. orð: *sål. CD (efter* þat*); ul. AB.*

jafnt sem áðr. Litlu síðar beiðiz Þórir hundsfótr at fara í burt, en móðir hans vísar honum til hellisins ok svá til þess fjár, sem honum var ætlat, ok segir honum til vápnanna ok bað hann taka øxina ok kvað hún svá fǫður hans hafa fyrir mælt; síðan fór Þórir í burt ok bað móður sína vel lifa. Hann þrífr fyrst til hjaltanna ok er sverðit fast; þá tekr hann í heptit, ok er øxin laus, því *at* hún var hon- 57
um ætluð; síðan tekr hann féit ok ferr leið sína; hann leggr svá leið, at hann ferr fyrst á fund Elgfróða, bróður síns; hann ferr inn í skála hans ok sez niðr í sætit ok lætr síga hǫttinn. Litlu síðarr kemr Fróði heim ok lítr ekki hýrliga til hins komna manns, bregðr nú skálminni ok mælti:

7. Grenjar skálm,
gengr ór slíðrum,
minniz hǫnd
hildar verka,

ok keyrir niðr á stokkinn hjá sér ok geriz mjǫk ólmr ok illiligr. Þórir kvað þá:

8. En ek læt víðs
á vegi ǫðrum
øxi mína
jafnt hljóð bera.

Ok þá duldiz Þórir ekki lengr, ok kendi þá Fróði bróður sinn ok bauð honum alt at helmingi við sik,

---

5—7. síðan—sverðit: hann þreif fyrst til sverðsins ok var þat *B*. 7. þrífr: kemr *CD*. 8. í heptit: til axarinnar *B*. øxin: hún þegar *B*. 8—9. því—ætluð: *ul. B*. 9. ok—sína: bað móður sína vel lifa; ferr síðan burtu *B*. 11. -fróða: fróðs *A*. 18. verka: *CD*; verki *AB*. 19. mjǫk: nú *C*. 20. ok illiligr: *ul. D*. 25—26. Fróði—ok: hvárr annan; Fróði *B*.

þat sem þá hafði hann saman dregit, því *at* þar skorti eigi auð mikinn. Þórir vill þat eigi þiggja; -dvelz hann þar um hríð ok fór í burt síðan. Elgfróði vísaði honum til Gautlands ok sagði honum, at nýdauðr sé konungr þeira Gautanna ok bað hann koma í ríki þeira. Hann sagði honum fyrir marga hluti. „Þat eru lǫg þeira Gautanna, at þar er stefnt fjǫlment mót, ok
58 stefnt þangat ǫllum Gautum; einn stórr stóll er settr á mótit, svá *at* sitja mega í rúmliga tveir menn, en sá skal konungr vera, er þat rúm fyllir, en mér þykkir, sem þú munir þat rúm ótæpt fylla“. Eptir þat skiljaz þeir, ok mælir hvárr vel fyrir ǫðrum. Fór Þórir nú leið sína, þar til er hann kemr til Gautlands til jarls eins, ok tók jarlinn honum vel, ok var þar um nóttina. Þat sagði hverr maðr, sem Þóri sá, at hann mætti vel vera yfir Gautum konungr fyrir vaxtar sakir, ok sǫgðu, at færi mundu þar slíkir. Ok þá *er* komit er at þingstaðnum, þá ferr þetta eptir því, sem Fróði bróðir hans hafði sagt honum fyrir. Hǫfundr einn var þar til settr, at skora þetta mál með sannindum; settuz margir í þetta sæti, ok kallaði hǫfundr engum sæma. Þórir gengr seinastr ok sez hann þegar í stólinn. Hǫfundr mælti: „þér er sætit hæfiligast, ok muntu dæmdr til þessarrar stjórnar“. Síðan gefa landsmenn honum konungsnafn, ok er hann kallaðr Þórir konungr hundsfótr, ok eru miklar sǫgur frá honum. Hann var vinsæll ok háði margar orrostur ok hafði optast sigr; sitr hann nú í ríki sínu um hríð.

5. honum—kgr: nýdauðan konung *C.* 8. mót: þing *B.* 11. vera: hjá þeim *tf. B.* 20. þetta: fram *tf. B.* 20—21. hafði —fyrir: gat til *B.* 22. skora: skýra *CD*; dæma *B.* 28. honum: komnar *tf. B.* 29. vinsæll: mjǫk *tf. B.*

**Kap. 22.** Bǫðvarr er heima með móður sinni. Hún unni honum mikit; allra manna var hann gerviligastr ok fríðastr sýnum; ekki var hann mjǫk málkunnugr mǫnnum. Hann spyrr móður sína eitt sinn, hverr faðir hans væri; hún sagði honum líflát hans ok allan atburð ok hversu hann varð fyrir óskǫpum af stjúpmóður sinni. Bǫðvarr sagði: „ilt 59
eigu vér þessu flagði at launa“. Þá sagði hún honum, hverninn hún var neydd af drotningu, at eta af bjarnarholdinu — „ok þat sér nú á bræðrum þínum, Þóri ok Elgfróða“. Bǫðvarr mælti: „eigi þætti mér Fróða óskyldara at hefna fǫður várs á þessu blauða flagði en at drepa menn saklausa til fjár sér ok gera illvirki, ok svá þótti mér Þórir fara undarliga í burt, at hann gerði eigi skessu þessarri nǫkkura áminning, ok vænti ek, *at* þat sé bezt ráð at ek seti henni nǫkkura áminning fyrir vára hǫnd“. Bera mælti: „stiltu svá til, at hún megi eigi fjǫlkyngi við koma, svá *at* þik megi skaða“. Hann kvað svá vera skyldu. Eptir þat fara þau Bera ok Bǫðvarr á konungs fund, ok nú segir hún konungi alt hverninn háttat er með ráði Bǫðvars, ok sýnir honum hringinn, sem hún hafi tekit undan bóg dýrsins, ok at Bjǫrn sonr hans hafi áttan. Konungr léz at vísu kenna hringinn — „hefir mik næsta grunat, at þetta mundi af hennar ráðum vera um kynstr þessi ǫll saman, sem hér hafa við borit, en fyrir ástar sakir við drotningu hefi ek látit kyrt

2. mikit: mest allra sona sinna *B*. 2—3. allra—fríðastr: hann var gjørviligr ok fríðr *B*. 5. hverr .. væri: hvat .. héti *B*. honum: þat ok *tf. B*. 10. -holdinu: -slátrinu *B*. 11. -fróða: *BD*; fróð *A; fork. C*. þætti: þótti *C*. 12. -skyldara: skyldast *AB*. 14. gera illv.: geraz illvirkr *B*. 15. í burt: *ul. B*. 16. ráð at: *ul. C*; at *ul. A*. 17. áminning: minning *B*; skript *C*. 22. með—B.: *ul. D*. 23. sem: *D*; hvern *ABC*. bóg: bógnum *A*.

vera“. Bǫðvarr mælti: „lát hana nú í burt fara, ella munu vér hefna á henni“. Konungr kvaðz vilja bæta honum fé eptir því, sem hann vildi, ok væri enn kyrt, ok gefa honum ríki til forráða ok jarlsnafn nú strax, en eptir sinn dauða konungdóm ok
60 væri henni ekki gert til meins. Bǫðvarr kvaðz ekki konungr vilja vera, heldr kvaðz hann vilja með konungi vera ok honum þjóna — „ertu svá fanginn fyrir þessum óvætti, at þú heldr varla viti þínu né réttum konungdómi, ok skal hún hér aldrei þrífaz upp frá þessu“. Bǫðvarr var þá svá ólmr við at eiga, at konungr þorði ekki at fáz við hann. Bǫðvarr gengr til skemmu drotningar ok hefir í hendi skreppu nǫkkura; konungr fór á eptir ok móðir hans; en er Bǫðvarr kom í skemmuna, snýr hann at Hvít drotningu ok setr belg skorpinn á hǫfuð henni ok dregr at hálsinum fyrir neðan; setti hann henni síðan vangahǫgg ok barði hana til heljar með ýmisligum píningum ok dró hana svá um ǫll stræti; þótti mǫrgum eða flestum þar innan hallar þetta ekki verra en hálfneytt, en konungi þótti stórilla, ok gat þó ekki at gert; lét Hvít drotning svá sitt arma líf; var Bǫðvarr þá átján vetra, er þetta var tíðinda. Litlu síðar tekr Hringr konungr sótt ok andaz. Eptir þat tekr Bǫðvarr þar við ríki ok unir þar litla hríð; síðan stefnir hann þing við lands-

5. strax: *sål. alle, men uden tvivl indsat for et ældre* þegar. dauða: dag *CD*. kgdóm: kgsnafn *B*. 7. kvaðz—vilja: *ul. B*. 8. ertu: eða ertu, segir Bǫðvarr *B*. 9. þessum: þessu *D*. 11. ólmr: reiðr *B*. 14—15. móðir hans: Bera *D*. 16. skorpinn: skarpan *C*; skreppuna *D*; skreppinn *B*. 18. síðan: nokkur *B*. vangahǫgg: vanhag *CD*. 21. verra: verr *B*. þótti: *BC*; *ul. A*; líkar *D*. 22. þó: *ul. AD*. 23. var*(2)*: gerðiz *B*. 25. Eptir—ríki: Tekr Bǫðvarr þar þá við ríki eptir hann *B*. 26. hann: fjǫlment *tf. B*.

menn ok talar þar á þinginu, at hann vili í burtu fara, en hann gipti móður sína manni þeim, sem Valsleitr hét —, hann var þar áðr jarl —, ok sitr Bǫðvarr í veizlunni, áðr en hann ríðr.

**Kap. 23.** Eptir þetta ríðr Bǫðvarr í burt einn saman ok ekki hefir hann með sér mikit gull né silfr né aðra fjárhluti, nema hann er vel búinn at vápnum ok klæðum; hann ríðr nú sínum góða hesti 61
fyrst til hellisins eptir tilvísan móður sinnar; verðr sverðit laust, þá *er* hann tekr til hjaltanna; þat fylgdi því sverði, at aldrei mátti því bregða utan þat væri mannsbani; þat skyldi eigi undir hǫfuð leggja ok eigi á hjalt reisa; eggja skyldi þrisvar sinnum á allri æfi sinni ok eigi mátti bregða annat skeið; svá var þat torsótt; þenna mæta grip vildu þeir bræðr allir eiga. Bǫðvarr sótti á fund Elgfróða bróður síns; hann gerði umgjǫrð at sverðinu af bǫrk. Ekki verðr tíðinda í ferð hans, fyrr en hann kemr aptan dags at skála miklum; þar réð fyrir Elgfróði. Bǫðvarr leiðir inn hest sinn ok þykkiz eiga at heimilu þat alt, er hann þykkiz þurfa. Fróði kemr heim um kveldit ok rennir illa augum á hann. Bǫðvarr ferr ekki at því ok lætr hefjaz við; svá hestarnir eigaz ok ilt við ok vill hvárr reka annan af stallinum. Fróði tekr þá til orða: „þetta er ofsamaðr mikill, er þorir at setjaz hér inn at ólofi mínu“. Bǫðvarr lét slúta hǫttinn ok svarar

4. ríðr: í burtu *tf. C.* 5. Bǫðvarr: hann *A.* 6. mikit: *ul. B.* 8. nú: á *tf. C.* 9. til-: á- *B; ul. A.* 10. þá er: er *D.* 13. eggja: *CD*; eggjar *AB (der tf.* brýna *efter* sinni). 15. þat . . sótt: hann . . sóttr *CD.* 18. bǫrk: *D*; bjǫrk *ABC.* 19. aptan: síð *B.* 21. heimilu: helmingi(!) *B.* þykkiz þurfa: með þyrpti *B.* 22—23. á hann: *ul. B*; til komumanns *C.* 24. ok*(1)*: líka *B.* 27. -lofi: -leyfi *CD.* slúta: síga *B.*

engu. Elgfróði stendr upp ok bregðr skálminni ok skellir síðan upp at heptinu, ok ferr svá tvisvar sinnum; Bǫðvarr bregðr sér ekki við; í þriðja sinn bregðr hann skálminni ok stefnir nú at honum ok hyggr hann, at sá maðr kunni ekki at hræðaz, er kominn var; ætlar nú hann skuli undir sér taka; ok sem Bǫðvarr sér, í hvert efni komit er, vill hann 62 eigi lengr bíða, stendr nú upp ok rennr undir hendr honum. Elgfróði var harðari undir hǫndum, ok eigaz þeir við miklar sviptingar, ok þá ferr ofan hǫttr Bǫðvars, ok þá kennir Fróði hann ok mælti: „velkominn frændi, ok hǫfum vit helzt til lengi þessar sviptingar haft“. „Ekki sakar enn til“, segir Bǫðvarr. Elgfróði mælti: „varligar mun þér þó enn, frændi, við mik at eiga, ef vit skulum þat þreyta, ok muntu hér enn aflsmunar kenna, ef vit skulum eigaz við ok ekki hlífaz við“. Fróði bauð honum þar at vera ok eiga alt hálft við sik; Bǫðvarr vill þat eigi ok þótti honum þat ilt, at drepa menn til fjár sér. Hann ferr nú á burt eptir þetta. Fróði fór á leið með honum ok segir honum þat, at hann hafi mǫrgum manni grið gefit, þeim er litlir váru fyrir sér, ok við þat gladdiz Bǫðvarr ok sagði, at hann

1—2. ok—heptinu: svá skellr við heptit *B*. 2. ferr svá: þetta gerir hann *B*. 4. nú—honum: á hann miðjan *B*. 5—6. hyggr—var: *ul. B*. 8. hendr: hǫnd *A*. 9—10. Elgfróði—miklar: verða þar harðar *B*. 9. var: þess *tf. A*. 10. sviptingar: Elgfr. var þess harðari undir hǫndum *tf. B*. 11. hǫttr: *BD*; hattr *AC*. ok—hann: Fr. kennir þá bróður sinn *B*. mælti: vertu *tf. B*. 12. til: til of *B*; of *C*; *ul. AD*. 13. þessar—haft: þetta þreytt *B*. 14. varligar—enn: ekki mun þik um þat gilda *D*. 14—15. varligar—eiga: varliga muntu mega fara *B*. 15. þat þreyta: þreyta til lengdar *B*. 16—17. vit—við*(2)*: ek skal eigi við hlífaz *B*; ek blífiz ekki við *D*. 19. þótti honum: sagði hann sér þætti *B*. 21. at hann: *ul. A*. 22. manni: mǫnnum *A*. 23. at: *B*; *ul. ACD*.

gerði þat vel — „ok flesta skyldir þú í friði láta fara, þó *at* þér þætti nǫkkut við þá“. Elgfróði segir: „mér eru allir hlutir illa gefnir, en þat er þér eitt til, at fara á fund Hrólfs konungs, því *at* þar vilja allir vera hinir mestu kappar með honum, því at stórlæti hans er miklu meira, rausn ok hugprýði en allra konunga annarra“. Síðan tók Fróði ok stjakaði honum. Þá mælti Fróði: „ekki ertu svá sterkr, frændi, sem þér hæfir“. Fróði nam sér blóð í kálfanum ok bað hann drekka, ok svá gerir Bǫðvarr; þá tók Fróði til hans í annat sinn, ok þá stóð 63 Bǫðvarr í sǫmu sporum. „Helzt ertu nú sterkr, frændi, sagði Elgfróði, ok vænti ek, at þér hafi komit at haldi drukkrinn, ok þú munt verða fyrirmaðr flestra um afl ok hreysti ok um alla harðfengi ok drengskap, ok þess ann ek þér vel“. Eptir þetta sté Fróði í bergit, er var hjá honum, alt til lagklaufa. Þá mælti Fróði: „til þessa spors mun ek koma hvern dag ok vita, hvat í sporinu er; mold mun í vera, ef þú verðr sóttdauðr, vatn, ef þú verðr sjódauðr, blóð, ef þú verðr vápndauðr, ok mun ek þá hefna þín, því *at* ek ann þér mest allra manna“. Skiljaz þeir nú, ok ferr Bǫðvarr leið sína, til þess er hann kom til Gautlands, ok var Þórir konungr hundsfótr eigi heima; þeir váru menn svá líkir, at hvárigan mátti þekkja frá ǫðrum, ok ætluðu landsmenn, at Þórir mundi heim kominn, ok er hann þar settr í hásæti ok þjónat jafnt sem konungi at ǫllum hlutum ok

1—2. láta fara: sjá *B*. 2. þó—þá: ef ek réði *B*. nǫkkut: at *tf. C*. 4. til: frama *tf. B*. 5—8. því—Þá: ok enn *B*. 6. rausn ok h.: *ul. D*. 7. Fróði: á honum *tf. C*; til *tf. D*. 11. í—sinn: *ul. B*. 13. Elgfr.: Fróði *B*. 14. drukk-: drykk- *D*. 18. koma: ganga *BD*. 19. í vera: verða *A*. 22. manna: minna *A*. 23. er: *B*; at *A*; *ul. DC*. 26. þekkja: kenna *D*. 28. kgi: sjálfum *tf. B*.

skipat í rekkju hjá drotningu, því *at* Þórir var kvángaðr. Bǫðvarr vill eigi liggja undir þeiri blæju, sem hún hefir; þetta þótti henni undarligt, því *at* hún hugði þat sannliga bónda sinn, en Bǫðvarr sagði henni alt, hverninn háttat er; hún lét þá ekki á sér finna; ok svá breyttu þau hverja nótt ok skrǫfuðuz svá við, fram til þess *er* Þórir kom heim, ok verða menn þá at þekkja, hvárr maðrinn er. Verðr þá fagnaðarfundr með þeim bræðrum; segir
64 Þórir, at engum mundi hann svá ǫðrum trúa, at byggja nærri drotningu sinni. Þórir bauð honum þar at vera ok hafa til helminga við hann alt lausafé. Bǫðvarr kveðz eigi vilja þat. Þórir bauð honum þá at fara með, sem hann vildi, eða fá honum lið; eigi vildi hann þat. Reið Bǫðvarr á burt, ok fór Þórir á leið með honum, ok skilja þeir bræðr með vináttu ok þó með leynd nǫkkurri; ok er ekki sagt af ferðum hans, fyrr en hann kemr fram í Danmǫrk ok þar til *er* hann á skamt til Hleiðargarðs. Einn dag var væta mikil, ok verðr Bǫðvarr vátr mjǫk, ok mæðiz fast hestrinn undir honum, er hann reið mikit, en gerðiz geysiliga blautt ok þungreitt; gerðiz mikit myrkr ok ofanfall á nóttinni; ok eigi finnr hann fyrr, en hestrinn drepr fótum í hæð nǫkkura. Bǫðvarr stígr af baki ok leitaz fyrir ok skilr hann, at þar muni vera hús nǫkkut, ok finnr hann, at þar eru dyrr á; hann lýstr á hurðina; þar gengr maðr

4. þat—sinn: bónda sinn vera *B.* 10. ǫðrum: *ul. BD.* 11. byggja: liggja svá *B.* 12. helminga: helmings *B* (at helmingi *D*). 17. ok—nǫkkurri: *ul. D.* 19. Einn: *nyt kap. B.* 19—23. Einn—mikit: Einn dag berr þat við, at B. ríðr, veðr var vátt, er á leið daginn, ok mæddiz hann mjǫk ok hestr hans; hestrinn mæddiz þó enn meir, því bæði var blautt ok þungreitt; þar með váru *B.* 21. hestrinn: ok gerðiz móðr *tf. A.* 23. -fall: -fǫll *B.* 26—27. hann—eru: *ul. C*; at—eru *ul. D.* 27. maðr: bóndi *B.*

út. Bǫðvarr beiðiz þar vistar um nóttina; húsbóndinn sagðiz ekki vísa honum burt á náttarþeli, en hann væri ókunnugr. Bónda þykkir maðrinn vera mikilúðligr, alt þat, er hann má á sjá. Þar er Bǫðvarr um nóttina í góðum beinleika; hann spurði margs frá afreksverkum Hrólfs konungs ok kappa hans, eða hversu langt væri þangat. „Nei, sagði karl, þangat er nú allskamt, eða ætlar þú þangat?“. 65 „Já, sagði Bǫðvarr, þat er ætlun mín“. Karl sagði honum mundu þat vel hent — „því *at* ek sé *at* þú ert mikill maðr ok sterkr, en þeir þykkjaz vera garpar miklir“. Ok við þetta grætr kerling hástǫfum, þá *er* þeir geta Hrólfs konungs ok kappa hans í Hleiðargarði. „Hvat grætr þú, fáráð kerling?“, segir Bǫðvarr. Kerling mælti: „vit karl minn áttum einn son, þann *er* Hǫttr hét, ok einn dag fór hann til borgarinnar at skemta sér, en þeir glettuz við hann konungsmenninir, ok þat stóðz hann illa; síðan tóku þeir hann ok settu í beina sorp; en þat er háttr þeira um matmál ok svá sem af er etit hverju beini, þá kasta þeir til hans; fær hann af því stundum stór mein, ef á hann kemr, ok ekki veit ek, hvárt hann er lífs eða dauðr; en þau laun vilda ek af þér hafa fyrir minn beinleika, at þú kastaðir til hans minna beini heldr en meira, ef hann er ekki dauðr út af“. Bǫðvarr segir: „ek skal gera eptir því, sem þú beiðir, ok ekki þykkir mér þat svá garpligt, at berja menn beinum eða hata bǫrn eða smámenni“. „Þá gerir

2. sagðiz ekki: s. ilt mundi vera at *B.* honum burt: frá einum manni *B.* 3. en—ókunnigr: einkanlega ef honum eru vegir ókunnugir *B.* 6. margs: *B*; mart *A(?)CD.* ok: eða *A.* 9. þat—mín: *ul. D.* 10. þat: þar *B.* 16. áttum: eigum *C.* þann: *ul. BC*; er *ul. A.* 23. ek: af því *tf. C.* 29. eða smámenni: *ul. D.*

þú vel, sagði kerling, því *at* þín hǫnd sýniz mér sterklig ok ek veit víst, at hann á engan stað fyrir þínum hǫggum, ef þú vilt ekki hlífaz við“. Síðan fór Bǫðvarr leið sína til Hleiðargarðs. Hann kemr 66 til konungs atsetu. Bǫðvarr leiðir síðan hest sinn á stall hjá konungs hestum hinum beztu ok spyrr engan at; gekk síðan inn í hǫllina, ok var þar fátt manna. Hann sez utarliga, ok sem hann hefir verit þar litla hríð, heyrir hann þrausk nǫkkut utar í hornit í einhverjum stað. Bǫðvarr lítr þangat ok sér, at mannshǫnd kemr upp úr mikilli beinahrúgu, er þar lá; hǫndin var svǫrt mjǫk. Bǫðvarr gengr þangat til ok spyrr, hverr þar væri í beinahrúgunni; þá var honum svarat ok heldr óframliga: „Hǫttr heiti ek, Bokki sæll“. „Hví ertu hér, segir Bǫðvarr, eða hvat gerir þú?“. Hǫttr segir: „ek geri mér skjaldborg, Bokki sæll“. Bǫðvarr sagði: „vesall ertu þinnar skjaldborgar“. Bǫðvarr þrífr til hans ok hnykkir honum upp úr beinahrúgunni. Hǫttr kvað þá hátt við ok mælti: „nú viltu mér bana, ger eigi þetta, svá sem ek hefi nú vel um búiz áðr, en þú hefir nú rótat í sundr skjaldborg minni, ok hafða ek nú svá gert hana háva utan at mér, at hún hefir hlíft mér við ǫllum hǫggum ykkar, svá *at* engi hǫgg hafa komit á mik lengi, en ekki var hún enn svá búin, sem ek ætlaði hún skyldi verða“. Bǫðvarr mælti: „ekki muntu fá skjaldborgina lengr“.

1. mér: svá *tf. B.* 2. ok: *C*; því *AD.* ok—stað: at hann á engan kost *B.* 3. hǫggum: at lifa *tf. B.* 4. sína: þar til hann kemr *tf. B.* Hann kemr: ok ferr *B.* 5. síðan: þegar *C; ul. BD.* 8. verit: setit *C.* 9. þrausk: þrusk *B.* 17. mér: *ul. B.* 19. hnykkir: rykkir *BD.* upp: burt *A.* 20—21. ger eigi: at þú gerir *C.* 21. sem—nú: hafða ek *B.* 22. rótat: rofit *C* (*og* mína). 23. mér: svá *tf. A.* 24—25. engi—hafa: *D*; ekkert hǫgg *(ul. B)* hefir *ABC.* 27. skjaldb.: gerða *tf. ABC.*

Hǫttr mælti ok grét: „skaltu nú bana mér, Bokki sæll?“. Bǫðvarr bað hann ekki hafa hátt, tók hann upp síðan ok bar hann út úr hǫllinni ok til vats nǫkkurs, sem þar var í nánd, ok gáfu fáir at þessu gaum, ok þó hann upp allan. Síðan gekk Bǫðvarr 67
til þess rúms, sem hann hafði áðr tekit, ok leiddi eptir sér Hǫtt ok þar setr hann Hǫtt hjá sér, en hann er svá hræddr, at skelfr á honum leggr ok liðr, en þó þykkiz hann skilja, at þessi maðr vill hjálpa sér. Eptir þat kveldar ok drífa menn í hǫllina ok sjá Hrólfs kappar, at Hǫttr er settr á bekk upp, ok þykkir þeim sá maðr hafa gert sik ærit djarfan, er þetta hefir til tekit. Ilt tillit hefir Hǫttr, þá *er* hann sér kunningja sína, því *at* hann hefir ilt eitt af þeim reynt; hann vill lifa gjarnan ok fara aptr í beinahrúgu sína, en Bǫðvarr heldr honum, svá *at* hann náir ekki í burtu at fara, því *at* hann þóttiz ekki jafnberr fyrir hǫggum þeira, ef hann næði þangat at komaz sem hann er nú. Hirðmenn hafa nú sama vanda, ok kasta fyrst beinum smám um þvert gólfit til Bǫðvars ok Hattar. Bǫðvarr lætr, sem hann sjái eigi þetta. Hǫttr er svá hræddr, at hann tekr eigi mat né drukk, ok þykkir honum þá ok þá sem hann muni vera lostinn; ok nú mælti Hǫttr til Bǫðvars: „Bokki sæll, nú ferr at þér stór hnúta, ok mun þetta ætlat okkr til nauða“.

1. grét: hátt *tf. B.* 2. sæll: *C*; minn *BD; ul. A.* 3—4. til—nǫkkurs: at einu vatni *B.* 4—5. ok—gaum: *ul. B.* 5. þó: þvoði *alle.* allan: fáir gáfu gaum at þessu *tf. B.* 6. þess: *ul. A.* 9. þó: þat *B.* 10. kveldar ok: *ul. B.* í hǫllina: at hǫllinni *C.* 11. er settr: sitr *B.* á: í *C.* 12. ærit: undra *B.* 18. fyrir: við *B.* 19. komaz: koma *B.* sem—nú: *ul. BC.* 20. sama: samt *CD.* vanda: sinn *tf. DC*; ok fyr *tf. B.* 23. eigi: á *tf. CD.* né drukk: ok eigi neytir hann drykkjar *D.* 25. þér: okkr *BC.* 26. stór: ofsastór *B.* nauða: bana *B.*

Bǫðvarr bað hann þegja; hann setr við holan lófann ok tekr svá við hnútunni; þar fylgir leggrinn með; Bǫðvarr sendi aptr hnútuna ok setr á þann, sem kastaði ok rétt framan í hann með svá harðri svipan, 68 at hann fekk bana; sló þá miklum ótta yfir hirðmennina. Kemr nú þessi fregn fyrir Hrólf konung ok kappa hans upp í kastalann, at maðr mikilúðligr sé kominn til hallarinnar ok hafi drepit einn hirðmann hans, ok vildu þeir láta drepa manninn. Hrólfr konungr spurðiz eptir, hvárt hirðmaðrinn hefði verit saklauss drepinn. „Því var næsta", sǫgðu þeir. Kómuz þá fyrir Hrólf konung ǫll sannindi hér um. Hrólfr konungr sagði þat skyldu fjarri, at drepa skyldi manninn — „hafi þit hér illan vanda upp tekit, at berja saklausa menn beinum; er mér í því óvirðing, en yðr stór skǫmm, at gera slíkt; hefi ek jafnan rætt um þetta áðr, ok hafi þit at þessu engan gaum gefit, ok hygg ek, at þessi maðr muni ekki alllítill fyrir sér, er þér hafið nú á leitat, ok kallið hann til mín, svá *at* ek viti, hverr hann er". Bǫðvarr gengr fyrir konung ok kveðr hann kurteisliga. Konungr spyrr hann at nafni. „Hattargriða kalla mik hirðmenn yðar, en Bǫðvarr heiti ek". Konungr mælti: „hverjar bætr viltu bjóða mér fyrir hirðmann minn?". Bǫðvarr segir: „til þess gerði hann, sem hann fekk". Konungr mælti: „viltu vera minn maðr ok skipa rúm hans?". Bǫðvarr segir: „ekki neita ek, at vera yðarr maðr, ok munu vit ekki skiljaz svá búit, vit Hǫttr, ok dveljaz

3—4. ok—kastaði: *ul. B.* 3. setr: aptr *tf. A.* 4. rétt: *ul. B.* í hann: á þann sem sendi *B.* 5. fekk: þegar *tf. B.* 8. hall-: hirð- *B.* 12. Kómuz: Komst *B*; Kom *D.* 14. skyldi: *ul. B.* 16. óvirðing: gjǫrð *tf. B.* 16—17. at—slíkt: *ul. B.* 17. áðr: við yðr *B.* 19. all-: *ul. B.* 22. kurteisl.: *BD*; listiliga *AC.*

nær þér báðir, heldr en þessi hefir setit, elligar vit fǫrum burt báðir". Konungr mælti: „eigi sé ek at honum sæmd en ek spara ekki mat við hann". Bǫðvarr gengr nú til þess rúms, sem honum líkaði, 69
en ekki vill hann þat skípa, sem hinn hafði áðr; hann kippir upp í einhverjum stað þremr mǫnnum, ok síðan settuz þeir Hǫttr þar niðr ok innar í hǫllinni en þeim var skipat. Heldr þótti mǫnnum ódælt við Bǫðvar, ok er þeim hinn mesti íhugi at honum. Ok sem leið at jólum, gerðuz menn ókátir. Bǫðvarr spyrr Hǫtt, hverju þetta sætti; hann segir honum, at dýr eitt hafi þar komit tvá vetr í samt, mikit ok ógurligt — „ok hefir vængi á bakinu ok flýgr þat jafnan; tvau haust hefir þat nú hingat vitjat ok gert mikinn skaða; á þat bíta ekki vápn, en kappar konungs koma ekki heim, þeir sem at eru einna mestir". Bǫðvarr mælti: „ekki er hǫllin svá vel skipuð, sem ek ætlaði, ef eitt dýr skal hér eyða ríki ok fé konungsins". Hǫttr sagði: „þat er ekki dýr, heldr er þat hit mesta trǫll". Nú kemr jólaaptann; þá mælti konungr: „nú vil ek, at menn sé kyrrir ok hljóðir í nótt, ok banna ek ǫllum mínum mǫnnum at ganga í nǫkkurn háska við dýrit, en fé ferr eptir því sem auðnar; menn mína vil ek ekki missa". Allir heita hér góðu um, at gera eptir því, sem konungr bauð. Bǫðvarr leyndiz í burt um nóttina; hann lætr Hǫtt fara með sér, ok gerir hann þat nauðugr ok kallaði hann sér stýrt til bana. Bǫðvarr segir, at betr mundi til takaz. Þeir ganga

---

4. honum: var ætlat ok(!) *tf. B.* 9. var: *ul. A (= 12 b).* at: á *C*; í *B.* 10. menn: þar *tf. B.* 16. kgs: hinir einna mestu *tf. B og ul. det følg.* þeir—mestir. 17. er: þyki mér *B.* 20. hit: *ul. AD.* 22—23. í nótt—dýrit: *ul. B.* 24. ferr: fari *B.* 29. til: *ul. A.*

70 i burt frá hǫllinni, ok verðr Bǫðvarr at bera hann; svá er hann hræddr. Nú sjá þeir dýrit; ok því næst æpir Hǫttr slíkt, sem hann má, ok kvað dýrit mundu gleypa hann. Bǫðvarr bað bikkjuna hans þegja ok kastar honum niðr í mosann, ok þar liggr hann ok eigi með ǫllu óhræddr; eigi þorir hann heim at fara heldr. Nú gengr Bǫðvarr móti dýrinu; þat hæfir honum, at sverðit er fast í umgjǫrðinni, er hann vildi bregða því. Bǫðvarr eggjar nú fast sverðit ok þá bragðar í umgjǫrðinni, ok nú fær hann brugðit umgjǫrðinni, svá *at* sverðit gengr úr slíðrunum, ok leggr þegar undir bægi dýrsins ok svá fast, at stóð í hjartanu, ok datt þá dýrit til jarðar dautt niðr. Eptir þat ferr hann þangat sem Hǫttr liggr. Bǫðvarr tekr hann upp ok berr þangat, sem dýrit liggr dautt. Hǫttr skelfr ákaft. Bǫðvarr mælti: „nú skaltu drekka blóð dýrsins“. Hann er lengi tregr, en þó þorir hann víst eigi annat. Bǫðvarr lætr hann drekka tvá sopa stóra; hann lét hann ok eta nǫkkut af dýrshjartanu; eptir þetta tekr Bǫðvarr til hans, ok áttuz þeir við lengi. Bǫðvarr mælti: „helzt ertu nú sterkr orðinn, ok ekki vænti ek, at þú hræðiz nú hirðmenn Hrólfs konungs“. Hǫttr sagði: „eigi mun ek þá hræðaz ok eigi þik upp frá þessu“. „Vel er þá orðit, Hǫttr félagi; fǫru vit nú til ok reisum upp dýrit ok búum svá um, at aðrir ætli at kvikt muni vera“. Þeir gera nú svá. Eptir
71 þat fara þeir heim ok hafa kyrt um sik, ok veit engi maðr, hvat þeir hafa iðjat. Konungr spyrr

1. í burt: *ul. A.* 3. Hǫttr: hástǫfum *tf. B.* 4. hans: þá *C.* 7. hæfir: hamlar *B.* 8—10. er—umgj.: *ul. A (men findes i 12 b).* 10. bragðar: brakar *BD.* 12. þegar: *ul. B.* 15. hann upp: Hǫtt *B.* berr: hann *tf. B.* 16. dautt: *ul. B.* 23. nú hirðm.: kappa *B.* 26. um: til *D.* aðrir: menn *C.* 27. at: *B; ul. ACD.* 28—29. ok(2)—iðjat: *ul. B.*

um morguninn, hvat þeir viti til dýrsins, hvárt þat hafi nǫkkut þangat vitjat um nóttina; honum var sagt, at fé alt væri heilt í grindum ok ósakat. Konungr bað menn forvitnaz, hvárt engi sæi líkindi til, at þat hefði heim komit. Varðmenn gerðu svá ok kómu skjótt aptr ok sǫgðu konungi, at dýrit færi þar ok heldr geyst at borginni. Konungr bað hirðmenn vera hrausta ok duga nú hvern eptir því, sem hann hefði hug til, ok ráða af óvætt þenna; ok svá var gert, sem konungr bauð, at þeir bjuggu sik til þess. Konungr horfði á dýrit ok mælti síðan: „enga sé ek fǫr á dýrinu, en hverr vill nú taka kaup einn ok ganga í móti því?“. Bǫðvarr mælti: „þat væri næsta hrausts manns forvitnisbót. Hǫttr félagi, rektu nú af þér illmælit þat, at menn láta, sem engi krellr né dugr muni í þér vera; far nú ok drep þú dýrit; máttu sjá, at engi er allfúss til annarra“. „Já, sagði Hǫttr, ek mun til þessa ráðaz“. Konungr mælti: „ekki veit ek, hvaðan þessi hreysti er at þér komin, Hǫttr, ok mikit hefir um þik skipaz á skammri stundu“. Hǫttr mælti: „gef mér til sverðit Gullinhjalta, er þú heldr á, ok skal ek þá fella dýrit eða fá bana“. Hrólfr konungr mælti: „þetta sverð er ekki beranda nema þeim manni, sem bæði er góðr drengr ok hraustr“. Hǫttr sagði: 72
„svá skaltu til ætla, at mér sé svá háttat“. Konungr mælti: „hvat má vita, nema fleira hafi skipz um hagi þína, en sjá þykkir, en fæstir menn þykkjaz þik kenna, at þú sér enn sami maðr; nú tak við

2. nǫkkut: *ul. B.* þangat: til borgarinnar *efter* vitjat *B.* 3. væri: í kyrðum ok *tf. B.* 4. engi sæi: þar sæiz engi *B.* 5. heim: þangat *B.* 5—6. gerðu—ok*(1)*: *ul. B.* 8—9. eptir —hug: sem drengr væri *B.* 9. -vætt: -viett *AC.* 15. þat—menn: þar aðrir *B.* 16. dugr: hugr nokkurr *B.* 26. svá—ætla: ætla svá til kgr *C.* 28. en*(1)*: er *A.* þykkir: er *B.* en*(2)*: því *C.*

sverðinu ok njót manna bezt, ef þetta er til unnit". Síðan gengr Hǫttr at dýrinu alldjarfliga ok høggr til þess, þá *er* hann kemr í hǫggfæri, ok dýrit fellr niðr dautt. Bǫðvarr mælti: „sjáið nú, herra, hvat hann hefir til unnit". Konungr segir: „víst hefir hann mikit skipaz, en ekki hefir Hǫttr einn dýrit drepit, heldr hefir þú þat gert". Bǫðvarr segir: „vera má, at svá sé". Konungr segir: „vissa ek, þá *er* þú komt hér, at fáir mundu þínir jafningjar vera, en þat þykki mér þó þitt verk frægiligast, at þú hefir gert hér annan kappa, þar *er* Hǫttr er, ok óvænligr þótti til mikillar giptu; ok nú vil ek *at* hann heiti eigi Hǫttr lengr ok skal hann heita Hjalti upp frá þessu; skaltu heita eptir sverðinu Gullinhjalta".

Ok endar hér þenna þátt af Bǫðvari ok bræðrum hans.

**Kap. 24.** Nú líðr á vetrinn ok þar til, sem berserkja Hrólfs konungs er heim ván. Bǫðvarr spyrr Hjalta um háttu berserkja. Hann segir, at þat sé vandi þeira at ganga fyrir sér hvern mann, er þeir koma heim til hirðarinnar, ok fyrst fyrir konunginn ok spyrja, ef hann teldiz jafnsnjall þeim,
73 en þá segir konungrinn svá: vant er þat at segja, jafnhraustir menn sem þér eruð, þar sem þér hafið framit yðr í bardǫgum ok blóðsúthellingum við ýmsar þjóðir svá vel í suðrálfu heimsins sem norðrálfunni, ok svarar konungr þessu þeim meirr af hug-

1. til: vel *A (men ikke 12 b).* 10. frægi-: fræki- *A.* 11. er ok: *ul. B.* 12. óvænl. þótti: *omv. B.* 13. ok: heldr *B.* 14. skaltu: skal hann *B.* 16. þenna: *ul. B.* af: frá *CD.* 16—17. af—hans: Bǫðvars ok hans bræðra *B.* 19. berserkja: -serkir(!) *AB.*

prýði en lítilmensku, því *at* hann þekkir sinni þeira, ok þeir vinna konunginum mikinn sigr ok mikit fé; þá ganga þeir þaðan ok spyrja hins sama hvern mann, sem í hǫllinni er, en engi þykkiz jafnsnjallr þeim". Bǫðvarr segir: „þat er lítit drengjaval, *er* hér er með Hrólfi konungi, at allir skuli bera bleyðiorð fyrir berserkjum". Nú hætta þeir þessu tali, ok hefir Bǫðvarr nú verit eitt ár með Hrólfi konungi, ok svá kemr nú annarr jólaaptann, at eitt sinn at Hrólfr konungr sat undir borðum, at spruttu upp dyrr hallarinnar, ok gengu þar inn tólf berserkir, allir gráir af járnum, svá sem á eina ísmǫl sæi. Bǫðvarr spyrr Hjalta í hljóði, hvárt hann þorir at reyna við einhvern þeirra. „Já, sagði Hjalti, ekki við einn, heldr við alla, því *at* ek kann ekki at hræðaz, þótt ofrefli mitt sé mér á móti, ok ekki skal einn þeira skelfa mik". Nú ganga berserkir fyrst innar eptir hǫllinni ok sjá þeir, at fjǫlgat hefir kappa Hrólfs konungs, síðan þeir fóru heiman, ok hyggja vandliga at þeim komnu mǫnnum, ok líz þeim hann ekki lítill fyrir sér annarr þeira, ok er sagt, at þeim hafi brugðit nǫkkut undarliga við, 74
þeim sem fyrir þeim gekk. Nú ganga þeir eptir vanda innar fyrir Hrólf konung ok spyrja hann sǫmu orða, sem þeir eru vanir, en konungr svarar, sem honum þykkir þar til hæfa eptir vanda, ok ganga

2. ok: því *AD*; ok þat *B*. sigr: styrk *B*. 2—3. ok*(2)*—fé: *ul. C*. 3. mikit: *ul. B*. þaðan: ok fyrir hvern mann *tf. B og ul. det følg.* hvern mann—er. 7. berserkjum: hans *tf. B*. 10. at: ok *C*. at—at: ok sem *B*. 10—11. sat—at: er undir borð kominn ok hirð hans, þá *B*. 12. af: fyrir *BC*. 14. reyna: sik *tf. B*. 16. þótt: vit *tf. C*. mér—móti: at eiga *C*. 19. hefir kappa: hafa kappar *C*. 24. innar: sínum *C*. hann: *ul. C*. 25. orða: orðum *C*. 26. hæfa: *D*; hlýða *B*; horfa *AC*.

svá fyrir hvern mann í hǫllinni, en seinast ganga þeir fyrir þá félaga, ok spyrr sá, sem fyrir þeim er, Bǫðvar, hvárt hann teldiz jafnsnjallr hánum. Bǫðvarr segir, at hann teldiz ekki jafnsnjallr, heldr snjallari, hvat sem þeir reyndu, ok þyrpti hann ekki at jaga sik sem aðra gyltu, sá fúll merarson, ok støkkr fram á berserkinn ok undir hann, þar *er* hann var í ǫllum herklæðunum, ok rekr hann niðr fall mikit, svá *at* honum lá við beinbrot. Hjalti í annan stað leikr slíkt hit sama. Þá varð mikit óhljóð í hǫllinni, ok þótti Hrólfi konungi horfaz til stórs váða, ef sínir menn dræpiz niðr; hleypr hann úr hásætinu ok at Bǫðvari ok biðr at láta alt vèra kyrt, en Bǫðvarr segir, *at* hann skuli lífit missa, nema hann teldiz sér minni maðr. Hrólfr konungr sagði, at þat væri auðgert, ok lét hann berserkinn svá upp standa; ok svá gerði Hjalti eptir konungs skipan. Settuz menn síðan hverr í sitt sæti, en berserkir í sín með þungri áhyggju. Taldi Hrólfr konungr fyrir þeim miklar fortǫlur, at þeir mætti
75 nú sjá þat, at eigi væri neitt svá ágætt, sterkt eða stórt, at ekki mætti þvílíkt finna — „fyrirbýð ek ykkr at vekja nǫkkur vandræði í minni hǫllu, en ef þit bregðið út af þessu, þá skal þat gilda ykkar líf, en verið sem ólmastir, þá *er* ek á við óvini mína at skipta, ok vinnið svá til heiðrs ok sæmdar; hefi ek nú þat kappaval, at ek þarf ekki upp á yðr at synjaz“. Allir gerðu góðan róm at máli konungs,

4. at—teldiz: *ul. B.* 6. gyltu: bikkju *B.* 7. støkkr: síðan hýðir hann *B.* 9. fall mikit: *B*; bǫlvat fall *ACD.* -brot: -broti *BC.* 12. váða: vandræðis *B.* 14. kyrt: ok í góðan máta *tf. ACD.* 15. teldiz: teliz *A.* 16. at: *D; ul. ABC.* 20. miklar: margar *B.* 26. svá: þá *B.* 28. synjaz: sínka *D*; sínkaz *Sth. 13. Disse ord giver ingen god mening*; *mulig er* heljaz *det oprindelige.* at: á *A.*

ok sættuz svá allir heilum sáttum, ok var svá skipat mǫnnum í hǫllunni, at Bǫðvarr var mest metinn ok haldinn, ok sat hann upp á hægri hǫnd konunginum ok honum næst, þá Hjalti hinn hugprúði, ok gaf konungr honum þat nafn; því mátti hann hugprúðr heita, at hann gekk hvern dag með hirðmǫnnum konungs, sem hann léku svá út, sem fyrr var frá sagt, ok gerði þeim ekki grand, en var nú orðinn miklu meiri maðr en þeir, en konungi þótti várkunn, þótt hann hefði gert þeim nǫkkura minning eða drepit einhvern þeira; en til vinstri handar konungi sátu þeir bræðr þrír: Svipdagr, Hvítserkr ok Beigaðr, svá váru þeir orðnir mikils háttar, ok þá tólf berserkir ok annat drengjaval svá á báðar síður um allan kastalann, sem hér eru eigi nefndir. Lét konungrinn þessa sína menn fremja alskyns leika ok listir, með allri gamni ok skemtun, ok reyndiz Bǫðvarr mestr allra hans kappa, hvat sem reyna þurfti, ok í svá miklar virðingar komz hann hjá Hrólfi 76
konungi, at hann eignaðiz hans einkadóttur, Drífu; ok leið nú svá fram um stund, at þeir sitja at sínu ríki ok eru allra manna frægastir.

**Kap. 25.** Þat er nú sagt einhvern dag, at Hrólfr konungr sat í sínum konungligum sal ok allir

1. sáttum: í hǫllinni *tf. B.* 2. í hǫllunni: um herbergit *B.* 3. ok haldinn: *ul. B.* 3—4. upp—næst: næsta (næst *D*) kginum á (til *D*) hægri hǫnd (handar *D*) *CD*; til hægri síðu kginum ok honum næst (*og ul. det følg.* þá) *B.* 8. ekki: *D*; ekkert *ACB.* grand: mein *B.* nú: þó *B*; þó *tf. CD.* 11. eða: jafnvel *tf. B.* 13. Beigaðr: *CD*; -aldi *A*; -aldr *B.* svá—ok: *ul. B.* 15. allan: *ul. B.* sem—nefndir: *ul. B.* 16. -kyns: konar *D.* 17. allri: *B*; allrahanda *ACD.* skemtun: ok gleðskap *tf. B.* 18. mestr allra: *omv. A.* 19. miklar virð.: mikinn kærleika *B.* 20. eign. hans: gipti hánum sína *B.* 21—22. þeir—frægastir: ekki bar til tíðinda *B.* 24. -ligum *D*; -liga *ABC.*

hans kappar ok stórmenni hjá honum ok at hann helt eina kostuliga veizlu. Nú sér Hrólfr konungr á báðar hendr ok mælti: „mikit ofrefli er hér saman komit í eina hǫll“. Þá spurði Hrólfr konungr Bǫðvar, hvárt hann vissi nǫkkurn konung slíkan sem hann ok stýri slíkum kǫppum. Bǫðvarr segiz eigi vita — „en einn hlutr er sá at mér þykkir hnekkja yðar konungligri tign“. Hrólfr konungr spurði, hverr hann sé. Bǫðvarr mælti: „þat skortir yðr, herra, at þér heimtið ekki fǫðurarf yðar til Uppsala, er Aðils konungr mágr yðar sitr yfir með rǫngu“. Hrólfr konungr segir, at torsótt muni eptir því at leita — „því *at* Aðils er ekki maðr einfaldr, heldr fjǫlkunnigr, slægvitr, kyndugr, klókr, grimmúðugr ok hinn versti við at eiga“. Bǫðvarr segir: „þó sómir yðr, herra, at leita eptir yðrum hlut ok finna Aðils konung eitt hvert sinn ok vita, hverninn hann svarar þessu máli“. Hrólfr konungr sagði:
77 „mikill málstaðr er þetta, sem þú vekr upp, því *at* þar eigum vér eptir fǫðurhefndum at leita; er Aðils konungr hinn ágjarnasti ok prettvísasti, ok skulum vér á hætta“. „Ekki mun ek þat lasta, segir Bǫðvarr, at reyna um sinn, hvat þar er fyrir, er Aðils konungr er“.

**Kap. 26.** Hrólfr konungr býz nú til ferðar sinnar með hundrað manna ok auk kappar hans tólf ok berserkir tólf. Ekki er sagt frá ferðum

3. hendr: sér *tf. B.* 6. hann—stýri: stýrði *B.* kǫppum: ok hann *tf. B.* segiz: hann *tf. B.* 11. er: ok *BD.* 14. slægvitr: slægr *B.* 17. hverninn: hverju *BD.* 18. þessu máli: yðr um þetta mál *B.* 21. ágjarn.—prettv.: *D*; ágjarni ok prettvísi (ok pr. *ul. B*) er *ABC.* 23. er(*1*): býr *C.* 27. frá: af *B.*

þeira, fyrr enn þeir koma til eins bónda; hann stóð úti, er þeir kómu, ok bauð þeim ǫllum þar at vera. Konungr sagði: „þú ert hraustr maðr, eða hefir þú nǫkkur efni til þess, því *at* vér erum eigi svá fáir saman, ok er þat ekki smábónda at taka við oss ǫllum“. Hann hló ok mælti: „já, herra, sagði hann, sét hefi ek menn stundum ekki færi koma, þar sem ek hefi verit, ok ekki skal yðr skorta drykk né svá annat nætrlangt eða þat sem þér þurfið at hafa“. Konungr sagði: „þá munum vér á þetta hætta“. Varð bóndi glaðr við þetta; eru nú teknir hestar þeira ok unninn þeim beinleiki. „Hvert er nafn þitt, bóndi?“, sagði konungr. „Hrana kalla mik sumir menn“, sagði hann. Þar er svá beint, at varla þykkjaz þeir hafa komit í beinna stað, ok er bóndi allkátr, ok þess spyrja þeir hann einskis, at hann kynni eigi úr ǫllu at leysa, ok þykkir þeim hann vera hinn óheimskasti; tóku nú 78
á sik svefn; ok er þeir vǫknuðu, kól þá svá, at þeim hristuz tennr í hǫfði, ok hrukku upp allir saman ok báru á sik klæði ok alt þat, sem til fekz, nema kappar Hrólfs konungs; þeir hlíttu þeim klæðum, sem áðr hǫfðu þeir; alla kól þá um nóttina. Þá spurði bóndi: „hversu hefir ykkr sofnaz?“. Bǫðvarr svarar: „vel“, segir hann. Þá mælti bóndi við konung: „veit ek, at hirðmǫnnum þínum þykkir heldr svalt hafa verit í skálanum í nótt, ok þat var svá, ok ekki mega þeir ætla sér at standaz þær þrautir, er Aðils konungr at Uppsǫlum mun reyna

4. þess: *ul. B.* 12. þeim: *ul. BD.* 15. þykkjaz þeir: þóttiz kgr *C.* 17. einskis: ei *C.* 18. þeim: honum *A.* 19. þá: um nóttina *tf. B.* 20. í: úr *B.* 21. alt: annat *tf. B.* sem—fekz: þeir til fengu *B.* 24. sofnaz: í nótt *tf. B.* 27. heldr: vind- *B; ul. C.* nótt: heldr mjǫk *tf. B.*

við yðr, er þeim þótti þetta svá erfitt, ok sentu heim herra, hálft lið þitt, ef þú vilt halda lífinu, því *at* ekki muntu með fjǫlmenni sigraz á Aðils konungi". „Mikill ertu fyrir þér, bóndi, sagði konungr, ok þetta skal ráð hafa, sem þú leggr til". Fara nú leið sína, þá *er* þeir eru búnir, ok biðja bónda vel lifa, en konungr sendir aptr helming liðs síns. Ríða nú leið sína, ok þegar verðr annarr bær fyrir þeim lítill. Hér þykkjaz þeir kenna hinn sama bónda, sem þeir hǫfðu áðr hjá gist; þeim þykkir nú undarliga við bregða; tekr bóndi enn vel við þeim ok spyrr, hví þeir komi svá opt. Konungr svarar: „vér vitum varla, hverjum brǫgðum vér erum beittir, ok máttu heita réttr bragðakarl".
79 Bóndi sagði: „eigi skal enn illa við yðr taka". Þar eru þeir þá nótt aðra í góðum beina ok tóku svefn á sik ok vǫknuðu við þat, at þorsti var svá mikill kominn á þá, at þeim þótti náliga óbæriligr, svá *at* þeir gátu varla hrært tunguna í hǫfði sér; þeir stóðu upp ok fóru þangat til, sem skaptker eitt stóð með vín, ok drukku þar úr. Um morguninn mælti Hrani bóndi: „enn er svá komit, herra, at þér hlýðið mér, ok þykki mér lítit þol í þeim mǫnnum, sem drekka verða um nætr; meiri raun munu þér verða at þola, þá *er* þér komið til Aðils konungs". Lusti þá á miklu illviðri, ok sitja þeir þar þann dag, ok kemr nótt hin þriðja; en um kveldit var gerr eldr fyrir þeim, ok þótti þeim helzt heitt um hǫnd, sem við eldinn sátu; flestir flýðu úr því rúmi, sem Hrani bóndi hafði

3—4. sigraz—kgi: sigra Aðils kg *B.* 8. Ríða—sína: *ul. C.* 20. fóru—sem: fundu fyrir sér *B.* 21. stóð: fult *B.* 23. lítit: lítil *A (ikke 12 b).* 25. þér*(1)*: þeir *B.* þér komið: þeir koma *B.* 26. Lusti: lysti *D.* 28. gerr: gerðr *alle.* 30. flýðu: flúðu *ligeledes.* hafði: ætlat þeim ok *tf. B.*

skipat þeim, ok stukku allir frá eldinum út utan Hrólfr konungr ok kappar hans. Bóndi mælti: „velja megi þér, herra, úr liðinu enn, ok er þat mitt ráð, at ekki fari nema þér ok kappar yðar tólf, ok er þá nǫkkur ván, at þér komið aptr, en engi elligar“. „Svá líz mér á þik, bóndi, sagði Hrólfr konungr, sem vér munum hafa ráð þín“. Eru þeir þar þrjár nætr; ríðr konungr þaðan við hinn tólfta mann, en sendi aptr alt sitt lið annat. Aðils konungr hefir njósn af þessu ok kallaði þat vel, at Hrólfr konungr vildi hann heimsækja — „því at hann skal hingat víst erindi hafa, svá *at* frásagnar skal þykkja vert, áðr en vit skiljum“.

**Kap. 27.** Eptir þetta ríðr Hrólfr konungr ok 80
kappar hans til hallar Aðils konungs, ok flykkiz allr borgarlýðr upp í hina hæstu turna borgarinnar, at sjá prýði Hrólfs konungs ok kappa hans, því *at* þeir váru búnir skartsamliga, ok þykkir mǫrgum mikils um vert um svá kurteisa riddara. Þeir ríða fyrst seint ok ríkmannliga, en þá er þeir áttu skamt til hallarinnar, þá létu þeir hestana kenna spora ok hleyptu heim at hǫllinni, svá at alt stǫkk undan þeim, sem fyrir þeim varð. Aðils konungr lætr fagna þeim vel með allri blíðu ok bauð, at láta taka hesta þeira. Bǫðvarr mælti: „hyggið svá til, sveinar, at hvárki bregði lagi sínu toppr né tagl í hestunum ok gætið þeira vel ok geymið hugalt, at eigi saurgiz þeir“. Þetta var þegar sagt Aðils konungi, hvat vandliga þeir hefði

---

1. út: *ul. CD.* 5. nǫkkur: nokkut *A (ikke 12 b).* komið aptr: komiz af *A.* 8. hinn—mann: *er urigtigt, da Hrolf jo er den trettende.* 11. at: *ul. A.* 22. heim: *CD*; þeim *AB.* 24. vel: *ul. C.* 29. hvat: hversu *C.*

fyrir mælt um hestageymsluna. Hann sagði: „harla mikit er um ofstopa þeira ok dramb; hafið nú mitt ráð, gerið sem ek býð; hǫggvið úr rófurnar nær fǫllum við rass upp ok skerið úr toppana, svá *at* þar fylgi með ennileðrit ok leikið þá út sem háðuligast í ǫllu þit getið, nema látið þá tóra at eins“. Þá er þeim fylgt at hallardyrum, en eigi kemr Aðils konungr í augljós. Þá mælti Svipdagr; „mér er kunnugt hér fyrir ok mun ek ganga inn fyrstr, því *at* mér er hinn mesti grunr á, hverninn við oss mun tekit eða fyrir mun búit; gerum ekki orð á, hvar
81 Hrólfr konungr er, svá *at* Aðils konungr þekki hann ekki úr flokki várum“. Gekk þá Svipdagr undan ǫllum ok þeir bræðr hans eptir honum, Hvítserkr ok Beigaðr, ok þá Hrólfr konungr ok Bǫðvarr ok svá hverr eptir ǫðrum; var þá ekki við sveina at metaz, því *at* horfnir váru þeir, sem þeim buðu til hallarinnar. Þeir hǫfðu hauka sina sér á ǫxlum, ok þótti þat mikil prýði í þær mundir, en Hrólfr konungr átti þann hauk, er Hábrók hét. Svipdagr gengr nú undan ok gætir vandliga at ǫllum hlutum; hann sér mikla umbreyting á víða; kómuz þeir yfir svá marga ófæru, sem fyrir þá var sett, at eigi er hægt at greina, ok var þess erfiðar, sem innar dró í hǫllina; ok nú komaz þeir svá langt í hǫllina alt þangat til *er* þeir sjá, hvar Aðils konungr rembiz í hásætinu, ok þykkir hváru-tveggjum mikils um vert, at hvárir sjá aðra; þó sjá þeir, at ekki er

3. nær fǫllum: *ul. BD.* 4. rass: lend *B.* 4—5. svá—fylgi: ok látið fylgja *B.* 5. enni-: ennis- *D.* -leðrit: leðrin *B.* 8. -ljós: -sýn *C.* 11. tekit: verða *tf. B og ul.* eða—búit. hvar: hvor *D.* 15. Beigaðr: Beigaðe *AC.* Bǫðvarr: ok Hjalti *tf. B.* 16. eptir: af *B.* 18. sina: *ul. B.* 19. þær mundir: þann tíma *B.* 23. svá: *ul. B.* 25. ok—hǫllina: *ul. C.* 25—26. alt—er: at *B.* 28. at*(1)*: er *C.*

auðvelt enn at ganga fyrir Aðils konung, en þó eru þeir komnir svá hvárr nær ǫðrum, at skiljaz má tal þeira. Þá tók Aðils konungr til orða: „ok þú ert nú kominn hér Svipdagr félagi, eða hvert mun erindit kappans?, eða mun ekki vera sem mér sýniz,

9. dalr er í hnakka,
auga er ór hǫfði,
ǫrr er í enni,
hǫgg eru á hendi tvau,

ok svá er Beigaðr bróðir hans allr knýttr“. Svip- 82
dagr mælti svá hátt, at allir máttu heyra: „nú vil ek þau grið af þér þiggja Aðils konungr eptir því, sem ek átti skilit af yðr, fyrir þá tólf menn, sem hér eru saman komnir“. Aðils konungr svarar: „ek vil játa þessu ok gangið inn í hǫllina skjótt ok skǫruliga með øruggu hjarta“. Þat þykkjaz þeir skilja, at tálgrafir eru gervar um hǫllina fyrir innan þá ok mun eigi fritt at reyna, hverninn fyrir er búit, en svá mikil dimma var yfir Aðils konungi, at þeir sáu ógløgt í andlit honum; þat sjá þeir ok, at tjǫldin, sem í kringum hǫllina eru innan henni til prýðis, eru fram brotin ok muni þar menn vera undir með vápnum; þetta var orði sannara, at þar þusti brynjaðr maðr undan hverju skauti, þá *er*

1. fyrir: til (A. kgs) *B.* 2. hvárr . . ǫðrum: *ul. C.* 2—3. skiljaz—þeira: skilja mega hvárir annars tal *C.* 10. Beigaðr: Beigalldr *B.* 12. eptir því: *ul. C.* 13. ek—yðr: þú hézt mér *B.* átti: fyrri *tf. C.* af yðr: *ul. C.* þá: þessa *C.* 14. saman: nú *C.* 14—15. ek—ok: *ul. B.* 15. gangið: þá *tf. B.* 16. hjarta: þá vil ek því játa *tf. B.* 17—18. innan þá: þeim *B.* 18—19. ok—búit: *ul. B.* 20. andlit: augu *B.* 21. sem: *ul. B.* 21—22. eru—prýðis: *ul. B.* 22. muni: munu *BCD.* 23. orði: orðum *B.* 24. brynjaðr: *ul. B.*

þeir hǫfðu komiz yfir grafirnar, ok gerði Hrólfr konungr ok kappar hans þar hina hǫrðustu hrið ok klufu fólkit í tennr niðr; fór svá um stund, ok kenniz ekki Hrólfr konungr, hvar hann er, en fólkit fell niðr undvǫrpum. Aðils konungr þrútnar nú í hásætinu, þá *er* hann sér at Hrólfs kappar brytja niðr sitt lið sem aðra hunda ok sér hann, at ekki mun duga svá leikit, stendr upp ok mælti: „hverju gegnir þetta hit mikla hark?, ok eru þetta hinar mestu mannfýlur, hvat þér takið til bragðs, at þér látiz leita á þvílíka afburðamenn, sem oss hafa
83 heimsótt, ok hættið skjótt ok setiz niðr, ok tǫkum á oss fagnað, Hrólfr mágr, allir samt“. Svipdagr mælti: „lítt haldi þér enn griðin Aðils konungr, ok fremdarlauss ertu í þessu“. Setjaz þeir síðan niðr eptir þat; Svipdagr inst, þá Hjalti hinn hugprúði, en Bǫðvarr sitr saman ok konungr, því *at* þeir vildu eigi, at hann væri kendr. Aðils konungr sagði: „þat sé ek, at þit farið ekki at mannvirðingu í ókunnu landi, eða hví hefir Hrólfr mágr ekki fleira lið?“. Svipdagr sagði: „þat sé ek, at þú sparir ekki at sitja á svikráðum við Hrólf konung ok menn hans, ok er þar lítit undir, hvárt hann ríðr hingat fámennr eða fjǫlmennr“. Ok skildu þeir svá tal sitt.

1. hǫfðu komiz: váru komnir *C*. 4. hvar: hverr *CD*. 5. und-: ǫnd- *ACD*; and- *B*. nú: mjǫk *tf. B*. 11. afburða-: afburðar- *BC*. 13. Hrólfr—samt: *ul. B*. 15—16. síðan . . . eptir þat: *ul. B*. 16. inst: fyrst *B*. 19—20. -virðingu: virðingum *BC*. 20. mágr: *ul. B*. 21. fleira: meira *B*. 23. er: eru *A*. lítit: komit *tf. B*.

**Kap. 28.** Eptir þat lét Aðils konungr ræsta hǫllina; váru þá í burtu bornir hinir dauðu, því *at* margr var drepinn af Aðils konungs mǫnnum, en fjǫldi sárr orðinn. Aðils konungr mælti: „gerum nú langelda fyrir vinum várum ok veitum af alvǫru slíkum mǫnnum, svá at oss líki ǫllum vel“. Eru nú menn fengnir til at kynda upp eldinn fyrir þeim. Þeir Hrólfr konungr sátu ávalt með vápnum sínum ok vildu aldrei þau af hǫndum láta. Eldrinn tundraði skjótt, því *at* þar var ekki til sparat biki ok þurrum skíðum. Aðils konungr skipar ǫðrumegin eldsins sér sjálfum ok hirðmǫnnum sínum, en Hrólfi konungi ok kǫppum hans ǫðrumegin, ok sitja á 84
langstólum hvárutveggju, ok talaz við alllíkliga sín á millum. Aðils konungr mælti: „ekki er ofsǫgum sagt af hreysti ykkar Hrólfs kappa ok harðfengi, enda þykkiz þér hverjum meiri, ok er ekki logit af mætti yðar. Aukið nú eldana, sagði Aðils konungr, því *at* ek skil eigi gløgt, hvat konungrinn er, ok munu þér eigi flýja eldinn, þótt ykkr megi nǫkkut válgna“. Ok svá var nú gert, sem hann sagði fyrir, ok vildi svá verða viss, hvar Hrólfr konungr væri, því *at* hann þóttiz vita, at hann mundi eigi geta staðiz hitann svá sem kapparnir, ok þótti sér þá mundu verða auðveldara at ná honum, er hann vissi hvar hann var, því *at* hann vildi Hrólf konung sannliga feigan. Bǫðvarr skildi þetta ok svá þeir fleiri ok hlífðu honum nǫkkut við hitanum, sem

5. alvǫru: alúð *B.* 8. Þeir—kgr: *CD*; Hrólfs kappar *AB.* 11. þurrum skíðum: þunnum spónum *B.* 14. all-: *ul. B.* 17. hverjum: manni *tf. B.* 17—18. af—yðar: frá yðr ok *B.* 20. þér: þeir *CD.* ykkr: þeim *CD.* 22. hvar: hvor *D*; eð *tf. AC.* 24. hitann: brunann *CD.* 26. hvar: hvor *D.* 27. feigan: svíkja *D.*

þeir máttu, en eigi svá, at hann yrði kendr at heldr. Ok sem eldrinn gekk at sem fastast, þá ætlar Hrólfr konungr þat fyrir sér, at minnaz þess, er hann hafði áðr heitit, at flýja hvárki eld né járn, ok sér hann nú, at Aðils konungr vill raun til þess gera, at þeir brenni þar eða ella efni eigi heitstrenging sína. Þat sjá þeir, at stóll Aðils konungs er kominn alt út at hallarveggnum, ok svá manna hans; nú gengr fast at eldsneytit, ok sjá þeir at bruninn fellr á þá, nema nǫkkut sé við gert; eru nú brunnin mjǫk á
85 þeim klæðin, ok kasta þeir þá skjǫldunum á eldinn. Þá mæltu þeir Bǫðvarr ok Svipdagr:

10. Aukum nú eldana
at Aðils borg.

Þreif þá sinn mann hvárr þeira, þá sem haldit hǫfðu upp eldunum, ok fleygðu þeim út á eldana ok mæltu: „njótið nú vermans af eldinum fyrir handaverk ykkar ok erfiði, því *at* vér erum nú fullbakaðir; bakið ykkr nú, því *at* þit váruð svá iðnir at um stund at elda fyrir oss“. Hjalti þrífr hinn þriðja ok fleygir honum á eldinn á sínum enda, ok svá hverjum þeira, sem eldana æstu; þar brunnu þeir til ǫsku ok varð þeim ekki bjargat, því *at* engi þorði svá nærri at koma. Eptir þetta unnit tekr Hrólfr konungr til orða:

2. sem*(2)*: *CD*; þeim *A*; þeim sem *B*. 3. þat—sér: *ul. C.* 6. ella: hann *B*; *ul. CD.* 8. at: úr *A (ikke 12 b).* 9. at*(1)*: á þá *B.* 11. klæðin: taka þeir þá skjǫlduna *tf. B.* þeir—skjǫldunum: þeim *B.* 14. borg: kóngi *B.* 15—16. þá—eldana: ok fleygðu þeim út á eldinn af þeim sem eldinn hǫfðu tendrat *B.* haldit—eldunum: kynt hǫfðu eldinn *D.* 17. vermans: verms *A.* 19. iðnir at: ólmir *B.* 21. á*(2)*—enda: *ul. D.* 21—22. ok*(2)*—þar: ok sinn mann tekr hverr þeira kappanna ok fleygja þeim á eldana, ok *D.* 22. þeir: þar *D.* 23. ǫsku: kaldra kola *D.* bjargat: hjálpat *D.*

11. Eigi flýr sá eldinn
sem yfir hleypr.

Ok eptir þetta stikla þeir allir yfir eldinn, ok ætla nú at Aðils konungi ok taka hann hǫndum; ok sem Aðils konungr sér þetta, forðaði hann sér ok hljóp at trénu, sem stóð í hǫllinni, ok var þat holt innan, ok svá komz hann úr hǫllinni með fjǫlkyngi sinni ok gǫldrum; ok svá kemr hann í sal Yrsu drotningar ok finnr hana at máli, ok tekr hún á honum hrakliga ok mælir mǫrgum stórum orðum við hann: „þú lézt fyrst drepa bónda minn, Helga konung, sagði hún, ok níddiz á honum ok heldr fénu fyrir þeim, sem átti, ok nú á svá gert ofan viltu drepa son 86
minn, ok ertu maðr miklu verri ok grimmari en nǫkkurir aðrir; nú skal ek alls við leita, at Hrólfr konungr nái fénu, ok muntu hljóta af óvirðing, sem makligt er“. Aðils konungr sagði: „þann veg mun hér fara, at hvárigir munu trúa ǫðrum; mun ek ekki koma í augsýn þeira heðan í frá“. Eptir þat skilja þau talit. Gengr Yrsa drotning þá á fund Hrólfs konungs ok fagnar honum afarvel; hann tekr ok vel kveðju hennar; hún fær til mann at þjóna þeim ok gera þeim góðan beina; ok sem þessi maðr kom fyrir Hrólf konung, þá mælti hann: „þunnleitr er þessi maðr, ok nǫkkurr kraki í andlitinu, eða er þetta konungr yðarr?“. Hrólfr konungr mælti: „nafn hefir þú gefit mér, þat sem við mik mun festaz, eða hvat gefr þú mér at nafnfesti?“. Vǫggr svaraði: „alls ekki hefi ek til, því at ek em félauss“.

2. sem: er *B*. 6. trénu: tré nǫkkuru *B*. 9. hrak-: harð- *D*. 13. viltu: vilt *A*. 15. nǫkkurir: *ul. BD*. 17. makligt: verðugt *B*. 18. munu: hér *tf. CD*. 19. þeira: þeim *CD*. 22. mann: menn *A*. 23. þeim: honum *C*.

Konungr mælti: „sá hlýtr þá at gefa ǫðrum, sem til á“. Hann dregr þá gullhring af hendi sér ok gefr þessum manni. Vǫggr mælti: „gef þú allra manna heilastr, ok er þetta hin mesta gersemi“. Ok sem konungr fann, at honum þótti mikils um vert, mælti hann: „litlu verðr Vǫggr feginn“. Vǫggr mælti ok sté upp á stokk ǫðrum fæti: „þess strengi ek heit, at ek skal þín hefna, ef ek lifi lengr, ef þú verðr af mǫnnum sigraðr“. Konungr svarar: „vel ferr þér, segir hann, en þó væri ekki til aðrir óvænni en þú“. Þat skilja þeir, at þessi maðr
87 muni vera hollr ok trúr í því hinu litla sem hann má, en lítils hyggja þeir hann muni orka mega, því *at* maðrinn var auvirðiligr. Nú leynaz þeir ekki fyrir honum. Síðan ætluðu þeir at sofa ok þóttuz þeir vita, at þeir mundu mega liggja óhræddir í þeim herbergjum, sem drotning hafði fengit þeim. Bǫðvarr mælti: „vel er hér fyrir oss búit ok vill drotning oss vel, en Aðils konungr vill oss svá mikit ilt sem hann má; þykki mér mikit, ef vér verðum at hafa svá búit“. Vǫggr segir þeim, at Aðils konungr sé hinn mesti blótmaðr — „svá *at* ekki finz dæmi til; blótar hann einn gǫlt, ok skil ek ekki, at slíkr óvinr megi verða, ok veri þér varir um yðr, því *at* hann leggr þar alt kapp á at fyrirkoma ykkr með einhverju móti“. „Meiri ván þykki mér, segir Bǫðvarr, at hann muni muna oss þat, hvernig hann stǫkk úr hǫllinni fyrir oss í kveld“. „Svá skulu þér til ætla, segir Vǫggr. at hann muni

7. ǫðrum fæti: nokkurn *B*. 13. lítils: litlu *CD*. 14. au-: auð- *alle*. 15. at sofa: til svefns *B*. 16. liggja: vera *B*. 21. segir þeim at: mælti *B og* er (*f.* sé). 23. finz: finniz *C*; finnaz *D*. til: þvílíks *tf. B*. einn: *BD*; einum *AC*. 24. slíkr óvinr: slíkir *B*; óvættur *skr. C*. 27. muni: megi *C*.

slægr ok grimmúðigr“. Þeir sofna eptir þat ok vakna við, at gnýr svá mikill er úti at heyra, at undir alt tekr, ok skjálfa þótti húsit, sem þeir lágu í, svá sem alsolla léki. Vǫggr tók þá til orða: „nú mun gǫltrinn kominn á gang ok mun sendr til hefnda við ykkr af Aðils konungi, ok er þat svá mikit trǫll, at engir mega þat standaz“. Hrólfr konungr átti einn hund mikinn, er Gramr hét; hann var með þeim; hann 88
var mjǫk frábærr at hreysti ok sterkleik. Því næst kemr þar inn trǫll í galtar líki ok lætr aumliga i því illa trǫlli. Bǫðvarr sigar hundinum á gǫltinn, ok lætr hann sér ekki bilt verða ok réz í móti geltinum; þar verðr nú atgangr harðfengr. Bǫðvarr veitir hundinum lið ok høggr til galta, en aldrei bítr á hans hrygg; svá er hundrinn Gramr harðr, at hann rífr hlustirnar af galtanum ok þar með alla kinnfilluna, ok er þat alt í senn, at gǫltrinn ferr þar niðr sem hann er kominn. Ok þá kemr Aðils konungr at húsinu með mikit fjǫlmenni ok slær þegar eldi í húsit, ok við þetta verða þeir Hrólfr konungr varir at eigi mun þá enn skorta eldsneytit. Bǫðvarr mælti: „illr dauðdagi er þetta, ef vér skulum hér inni brenna, ok køra ek heldr at falla fyrir vápnum á sléttum velli, ok ill verða þá ævilok kappa Hrólfs konungs, ef svá skal til ganga; sé ek nú ekki annat ráð vænna, en ganga svá fast á at undan gangi þilin, ok brjótumz vér svá burt úr

1. grimmúðigr: grimmr *B.* 3. skjálfa þótti: *ul. B.* 4. svá—léki: lék sem á þræði *B.* alsolla: á solli (hjóli *i margen) C.* mun: er *B.* 5. gǫltrinn: galtinn *A.* 11. illa trǫlli: *ul. D.* 12. bilt: við *tf. B.* 13. harðfengr: harðr *D.* 14. galta: galtarins *BD*; galtans *C.* 14—15. en—hrygg: á hrygginn en ekki beit á *B.* 21. elds-: eld *A.* 25. kappa: *sål. CD; ul. A.* kgs: ok kappa hans *tf. B.* 26—27. svá—þilin: á þilin sem fastast svá þau brotni *B.* 26. á: *sål. CD (og her* þilin *D); ul. A.*

húsinu, ef þat má leikaz“ — en þat var þó ekki barnaspil, húsit var rammbyggiliga smíðat — „ok hafi svá hverr mann fyrir sik, er vér komum út, ok munu þeir þá enn skjótt blotna“. „Þetta er þjóðráð, sagði Hrólfr konungr, ok þetta mun oss fullvel duga“.

**Kap. 29.** Nú taka þeir þetta til ráðs, at þeir hlaupa á þilin svá hart ok heimsliga, at þau brotna
89 í sundr, ok komaz svá út; er þá alþakit stræti borgarinnar af brynjuðu fólki; tekz þar þá hinn harðasti bardagi með þeim, ok gengr Hrólfr konungr ok kappar hans grimmliga fram; verðr mjǫk rýrt fyrir þeim liðit; mæta þeir aldrei neinum svá stoltum né dramblátum, at ekki verði at krjúpa fyrir þeira stórum hǫggum. Ok í þessum harða bardaga kemr haukr Hrólfs konungs fljúgandi úr borginni ok sez á ǫxl Hrólfs konungs svá látandi svá sem hann eigi miklum sigri at hrósa. Bǫðvarr mælti: „svá lætr hann nú, sem hann hafi nǫkkurn frama unnit“. Sá maðr skundaði til eins lopts, sem haukana átti at annaz ok þeir váru í geymdir, ok þykkir honum undarligt, at haukr Hrólfs konungs er í burtu, en hann finnr dauða alla hauka Aðils konungs. Lýkr með því bardaganum, at þeir drepa þar fjǫlda manna, ok stenz eigi neitt fyrir þeim; en Aðils

1. en—var: ok er þat *B*. 2. -byggi-: *ul. B*. 3. hafi—sik: ok hǫfum vit svá mann fyrir okkr hverr um sik *B*; sér *skr. A*. 5—6. fullvel: *ul. B*. 6. duga: *ing. kap. B*. 7—8. taka—hlaupa: hlaupa þeir *B*. 8. ok heimsl.: *ul. BD*. heims-: hraust- *C*. 12. grimmliga: hart *B*. 18. miklum: *ul. B*. 19. nǫkkurn: mikinn *B*. 21. annaz: geyma ok annaz *B*. ok—geymdir: *ul. BD*. 22. undarligt: undarliga við bera *D*. Hrólfs: *ul. A*. 23. hann—kgs: allir haukar Aðils kgs eru dauðir *B*. 25. fyrir: við *BCD*.

konungr er þá horfinn, ok eigi þykkjaz þeir vita, hvat af honum er orðit. Þeir biðja sér griða sem uppi standa af mǫnnum Aðils konungs, ok veita þeir þeim þat. Eptir þetta ganga þeir til hallar ok inn í hǫllina djarfliga; þá spyrr Bǫðvarr á hvárn bekk Hrólfr konungr vill sitja. Hrólfr konungr svarar: „á konungspallinn sjálfan skulum vér setjaz, ok mun ek setjaz í ǫndvegi“. Aðils konungr kom eigi í hǫllina ok þóttiz hann þungt af bíða ok mikla smán hafa fengit, hverra bragða sem hann leitaði. Þeir sátu nú um hríð með hvíld ok ró. Þá mælti 90 Hjalti hinn hugprúði: „mun ekki ráð, at einhverr viti hesta várra ok vita, hvárt þá skortir eigi þat, sem þeir þurfa við“. Ok nú var svá gert; en þegar sá kom aptr, sagði hann hestana háðuliga útleikna, ok sagði frá, hverninn þeir váru útleiknir, svá sem fyrr var sagt. Ekki gaf Hrólfr konungr sik at þessu, nema hann sagði, at alt færi á einn veg fyrir Aðils konungi. Nú kemr Yrsa drotning í hǫllina ok gengr fyrir Hrólf konung ok kvaddi hann með list ok prýði; hann tók vel kveðju hennar. Hún mælti: „eigi er þér svá fagnat, frændi, sem ek vildi ok vera ætti, ok eigi skaltu hér lengr dveljaz, son minn, í slíkum ófagnaði, því at liðsdráttr er mikill um alt Svíaveldi ok ætlar Aðils konungr at drepa yðr alla, sem hann hefir viljat fyrir lǫngu, hefði hann því fram komit, ok hefir nú

3. uppi standa: eptir eru *B.* 8. ok—setjaz: *ul. B.* 14. við: at hafa *B.* 16. útleikna: ok skammfæra (-færða *C*) *tf. AC.* útleiknir: til búnir *D.* 16—17. ok—sagt: *ul. B.* 18. þessu: því *B.* 22. svá: vel *tf. B.* 24. ófagnaði: því at til þess ætlar Aðils kgr, at þit skuluð allir lífit missa, ef hann má *tf. B.* 25. mikill: *ul. B.* 25—27. ok—komit: *ul. B.*

meira mátt auðna þín, en trǫllskapr hans. Ok nú er hér eitt silfrhorn, sem ek vil fá þér ok varðveittir eru í allir hinir beztu hringar Aðils konungs ok sá einn, er Svíagriss heitir, ok honum þykkir betri en allir aðrir". Ok þar með fær hún honum mikit gull ok silfr í ǫðru lagi; þetta fé var svá mikit alt saman, at varla kunni einn at virða. Vǫggr var þar viðstaddr ok þiggr mikit gull at Hrólfi konungi fyrir sína dygðuga þjónustu. Drotning lætr leiða
91 fram hesta tólf, alla rauða at lit, nema einn, sá var hvítr sem snjór; þeim skyldi Hrólfr konungr ríða; þessir váru þeir, sem bezt reynduz af ǫllum Aðils konungs hestum, allir albrynjaðir. Hún fekk þeim skjǫldu ok hjálma ok herklæði ok ǫnnur góð klæði, sem bezt funduz, því *at* eldrinn hafði áðr spilt þeira klæðum ok vápnum; alla hluti fekk hún þeim stórkostliga, þá sem þeir þurftu at hafa. Hrólfr konungr mælti: „hvárt hefir þú fengit mér þvílíkt fé, sem ek átti at réttu ok faðir minn hafði átt?". Hún segir: „mǫrgum hlutum er þetta meira, en þú áttir at heimta, ok hefir þú hér mikinn frama unnit ok þínir menn; búið yðr nú sem bezt, svá *at* eigi megi á yðr ganga, því *at* þér munuð enn reyndir verða". Eptir þetta stigu þeir á hesta sína. Hrólfr konungr mælir ástsamliga til móður sinnar, ok skilja þau með blíðu.

---

1. auðna: gæfa *B.* 2. fá: gefa *B.* 5. allir: hinir *D.* 6—7. alt saman: *ul. CD.* 7. kunni—at: mátti *B.* kunni—virða: gat einn reiknat *D.* 10. einn: *ul. B.* sá: *ul. C.* 11. sem—kgr: er kóngr skyldi *B.* 12. ǫllum: *ul. B.* 13. allir: váru *tf. C.* 17. þá: þat *C.* 18—19. þvílíkt fé: meira fé eða þvíl. *B.* 19. at: með *B.* 20. meira: fé *tf. B.* 21. hefir þú: *BC*; hafi þér *AD.*

**Kap. 30.** Hrólfr konungr ok kappar hans ríða nú leið sína ofan frá Uppsǫlum ok þar um, sem heitir á Fýrisvǫllum, ok sá Hrólfr konungr, at gullhringr mikill glóaði í gǫtunni fyrir þeim ok glumraði við, er þeir ríða yfir hann. „Því gellr hann svá hátt, sagði Hrólfr konungr, at honum þykkir ilt einum" — ok rennir hann af sér gullhring ok í gǫtuna til hins ok mælti: „þat skal fyrirberaz, at ek taki ekki upp gull, þótt á gǫtu liggi, ok sé engi minna manna svá djarfr at hann taki upp; því er honum hér kastat, at hann skuli hepta ferð vára". Þeir hétu honum því, ok í því heyra þeir lúðra- 92
gang í allar áttir; þeir sjá ógrynni liðs fara eptir sér; þetta lið ferr svá geyst, at hverr hleypir slíkt alt, er hans hestr má af taka. Þeir Hrólfr konungr ríða rétt áfram hit sama. Bǫðvarr mælti: „þessir sækja hart eptir, ok víst vilda ek, at nǫkkurir hefði erindi, ok þeir vilja víst oss finna". Konungr mælti: „gefum oss lítit at; þeir munu sjálfir dveljaz". Réttir hann nú hǫndina til hornsins, þess sem gullit var í ok Beigaðr reið með ok helt í hendi sér; hann sáir nú gullinu víða í gǫtuna, þar sem þeir ríða um alla Fýrisvǫllu, svá at gǫturnar glóa sem gull; en er liðit sér þat, sem eptir ferr, at gullit glóar víða í gǫtunni, þá hlaupa flestir af baki, ok þykkiz sá bezt leika, sem skjótastr verðr til upp at taka, ok verða þar hinar mestu hripsingar ok áhǫld, ok hefir sá helzt, sem sterkastr er, ok sóttiz því seint eptirferðin. Ok er þetta sér Aðils konungr, liggr hon-

4. mikill: einn *C; ul. B.* fyrir þeim: *ul. B*; honum *skr. CD.* 6. ilt: langt *B.* 7. einum: *C*; einsǫmlum *ABD.* gullhring: *med art. A.* ok*(2)*: ofan *tf. B.* 13. í: *CD*; um *AB*; alt Svíaveldi(!) ok *tf. B.* 16. hit sama: *ul. B.* 19. lítit: fátt *B.* 26. leika: hafa *B.* 28. sóttiz—seint: verðr sein *B.* 29. ferðin: reiðin *B.*

um við at ganga af vitinu ok ávítar þá með hǫrðum orðum ok segir, þeir taki upp hit minna, en láti sleppa hjá sér hit meira — „ok mun þessi fúla skǫmm á hvert land spyrjaz at þér skuluð láta eina tólf menn rekaz hér undan oss svá ótǫluligum fjǫlda, sem ek hefi nú saman dregit af ǫllum heruðum Svíaveldis“. Aðils konungr hleypir nú undan ǫllum,
93 því *at* hann var hinn reiðasti, en múgr manns eptir honum. Nú sem Hrólfr konungr sér Aðils konung þeyta næst sér, þá tekr hann hringinn Svíagrís ok kastar á gǫtuna; ok sem Aðils konungr sér hringinn, mælti hann: „hollari hefir sá verit Hrólfi konungi en mér, sem honum hefir fengit þessa gersemi, ok eigi at síðr skal ek nú njóta hans, en eigi Hrólfr konungr“, — réttir nú til spjótskapt sitt þar sem hringrinn lá ok vildi fyrir hvern mun ná honum; beygiz nú mjǫk á hestinum, er hann stakk niðr spjótinu í buginn á hringnum. Hrólfr konungr sér nú þetta. Þá snýr hann aptr hestinum ok mælti: „svínbeygða ek nú þann, sem Svíanna er ríkastr“. En er Aðils konungr ætlar at draga at sér spjótskaptit ok þar með hringinn, þá hleypir þar at honum Hrólfr konungr ok hjó af honum báða þjóhnappana alt niðr at beini með sverðinu Skǫfnung, er allra sverða bezt hefir verit borit á norðrlǫndum. Hrólfr konungr mælti þá til Aðils konungs ok bað hann halda þessarri skǫmm um hríð — „ok máttu nú kenna Hrólf kraka, hvar

3. sleppa—sér: hjá líða *B.* mun: muni *A.* 5. oss: *ul. B.* ótǫlul.: miklum *B.* 8. hinn reiðasti: *C;* reiðastr *ABD.* múgr: *B*; múga *ACD* (*her rettet til* múgi). 9—10. Aðils—sér: þetta *B.* 13. en mér: *BD*; *ul. AC* (*der dog har* heldr). 17—18. er—hringnum: *ul. B.* 22. spjótskaptit: spjótit *B.* 28. hvar: hvor *D.*

hann er sem þú hefir lengi eptir sótt“. Aðils konung sækir þá mikil blóðrás, svá *at* hann ómættir af, ok verðr nú at snúa aptr við verr búit, en Hrólfr konungr tók aptr Svíagrís; skilr þar með þeim at sinni. Er þat ok ekki sagt, at þeir hafi fundiz síðan; drepa þeir ok alla þá menn, sem mest hǫfðu fram riðit ok mest hǫfðu hætt, því *at* ekki 94 þurftu þeir lengi at bíða Hrólfs konungs ok kappa hans ok þóttiz engi þeira ofgóðr at embætta þeim, ok mattiz engi þeira við annan, þegar færit gafz. Þeir Hrólfr konungr ok hans menn fóru nú veg sinn ok ríða þann dag nær allan. Ok sem nátta tók, finna þeir bæ einn, ok kómu til dyra; er þar fyrir Hrani bóndi ok býðr þeim allan greiðskap ok kallaði, at ekki hefði farit fjarri því, sem hann gat til um ferðir þeira; konungr sannar þat ok kallar hann vera óreykblindan. „Hér eru vápn herra, er ek vil gefa þér“, segir Hrani bóndi. Konungr mælti: „ferlig vápn eru þetta, karl“, en þat var skjǫldr ok sverð ok brynja. Ekki vill Hrólfr konungr þiggja vápnin. Hrani bregz við þetta nær reiðr ok þykkir ger til sín svívirðing mikil í þessu — „ekki ertu þér svá hagfeldr í þessu, Hrólfr konungr, sagði Hrani, sem þú munt ætla, ok eru þér jafnan eigi svá vitrir, sem þér þykkiz“, ok tók bóndi á þessu hrakliga; varð nú eigi af nætrgreiðanum, ok vilja þeir nú ríða veg sinn, þó at nótt sé myrk. Hrani

3. verr: svá *B*. 6. síðan: þaðan í frá *B*. 7. ok—hætt: *ul. BD*. 10. ok—gafz: *ul. B*. mattiz: mettiz *A*. 13. ok kómu: bóndi kom *C*; ok var komit *B*; ok ganga (at dyrum) *D*. 14. greiðskap: greiða *B*. 15. fjarri: eptir *tf. ABD*. 16. þat: satt at vera *tf. B*. 17. óreykbl.: óheimskau *D*. herra: *B*; *ul. AD*; *efter* þér *C*. 20. sverð: hjálmr *B*. 21. nær: mjǫk *B*. 22. mikil: *ul. BD*. 25. á: *ul. B*. 26. nætr-: nátt- *B*. 27. nótt: myrkt *B og ul.* myrk.

er óhýrligr undir brún at líta ok þykkiz nú lítils virtr, er þeir þágu eigi gjafir af honum; letr hann nú eigi at þeir ríði sem þeim líkar; riðu þeir nú á burt við svá búit, ok varð ekki af kveðjum. Ok sem þeir eru ekki langt komnir, nemr Bǫðvarr bjarki staðar; hann tók svá til orðs: „eptir koma ósvinnum ráð í hug, ok svá mun mér nú fara; þat grunar mik, at oss muni ekki allsvinnliga til tekiz hafa, at vér hǫfum því neitat, sem vér áttum at játa, ok munu vér sigri hafa neitat“. Hrólfr konungr segir:
95 „þat hit sama grunar mik, því *at* þetta mun Óðinn gamli verit hafa, ok at vísu var maðrinn einsýnn“. „Snúum nú aptr sem hvatast, segir Svipdagr, ok reynum þetta“. Þeir koma nú aptr, ok er þá horfinn bærinn ok karlinn. „Eigi stoðar hans at leita, segir Hrólfr konungr, því *at* þat er illr andi“. Þeir fara nú leið sína, ok er ekki sagt af ferðum þeira, fyrr en þeir koma í Danmǫrk í ríki sitt ok setjaz nú um kyrt. Þat ráð gaf Bǫðvarr konunginum, at hann sé lítt í orrostum þaðan í frá; líz þeim þat líkara, at lítt mundi á þá leitat, ef þeir væri kyrrir, en léz hræddr vera um þat, hversu konungrinn mundi sigrsæll upp frá þessu, ef hann treysti nǫkkut á þat. Hrólfr konungr segir: „auðna ræðr hvers manns lífi, en ekki sá illi andi“. Bǫðvarr sagði: „þik vildum vér sízt láta, ef vér ættum at ráða, en þó hefi ok meiri grun, at skamt muni til stórra tíðinda fyrir oss ǫllum“. Hættu þeir svá þessu tali, ok urðu þeir stórliga frægir af þessarri ferð.

---

1. brún: brýn *B.* 2. er—honum: *ul. B.* þeir þágu: kgr þá *C.* 4. kveðjum: með þeim *tf. B.* 6. hann—orðs: ok mælti *B*; orða *skr. D.* 6—7. ósvinnum: manni *tf. B.* 8. at: *ul. A.* ekki all-: alló- *B.* 14. koma: snúa *C*; sneru *B.* 15. bærinn . . karlinn: *uden art. C.* 18. í r. sitt: *ul. B.* 20. þat: þá *A.* 23—24. ef—þat: *ul. BD.* 25. illi: illr *B.*

**Kap. 31.** Nú leið svá langar stundir, at Hrólfr konungr ok kappar hans sátu með friði í Danmǫrk; 96
leitaði engi á þá; stóðu allir hans skattkonungar í hlýðni við hann ok guldu honum sína skatta ok svá gerði Hjǫrvarðr mágr hans. Nú var þat eitt hvert sinn, at Skuld drotning mælti við Hjǫrvarð konung bónda sinn með þungum anda: „þat fellr mér lítt, at vit skulum gjalda skatt Hrólfi konungi ok vera nauðpínd undir hann, ok skal þat ekki vera lengr, at þú sér undirmaðr hans“. Hjǫrvarðr segir: „þat mun oss bezt gegna sem ǫðrum, at líða þat ok láta alt vera kyrt“. „Þat er . . . . lítill þú ert fyrir þér, sagði hún, at þú vilt þola hvers kyns skammir, er þér eru gervar“. Hann sagði: „þat er ekki mǫguligt, at fáz við Hrólf konung, því *at* engi þorir móti honum rǫnd at reisa“. „Því eru þér svá litlir fyrir yðr, sagði hún, at engi krellr er í yðr, ok hefir sá eigi jafnan, sem ekki hættir; nú má slíkt eigi vita fyrr en reynt er, hvárt Hrólfi konungi má ekki bella né kǫppum hans; en nú er svá komit, sagði hún, at ek ætla at hann muni með ǫllu sigrlauss, ok eigi þætti mér fjarri at reyna þat, ok þótt hann sé mér skyldr, þá skal ek honum ekki hlífa, ok því er hann einatt heima, at sjálfan hann grunar, at hann muni missa sigrinn. Skal ek nú setja ráð til, ef bíta vildi, ok skal nú ekki af draga allra bragða í at leita at yfir taki“. Var Skuld hin mesta galdrakind ok var út af álfum komin í móðurætt

1. leið: líða *C*; liðu *D*. 12. lítill: lítilfjǫrlegr *B*; *foran dette ord må noget være udfaldet (f. eks.:* skǫmm hvé). 15. kg: ok kappa hans *tf. B.* 16. móti honum: við þeim *B.* eru þér . . litlir: ertu . . lítill *B.* 17. at—yðr: *ul. B.* krellr: kvellr *CD.* 18. eigi . . . ekki: *ul. D.* jafnan: *ul. B.* 19—20. hvárt—hans: *ul. B.* 24. grunar: sjálfkrafa *tf. B.* 25. missa sigrinn: sigrlauss *B.* ráð: *ul. B.* 27. í: við *B.*

97 sína, ok þess galt Hrólfr konungr ok kappar hans. „Skal nú fyrst senda menn til Hrólfs konungs ok biðja hann þess, at hann unni mér at gjalda eigi skattinn á þrem árum hinum næstu, ok þá mun ek gjalda hann allan í senn upp, eptir því sem hann á at réttu; nú þykki mér meiri ván, at þetta bragð dugi, ok ef þetta gengz eigi við, þá skulu vit kyrru fyrir halda“. Nú fara sendimenn í milli eptir því, sem drotning beiddi. Hrólfr konungr játar þessu um skattinn, sem beðit var.

Kap. 32. Á þessarri stundu safnar Skuld saman ǫllum þeim mǫnnum, sem mestir váru fyrir sér, ok ǫllu illþýði af ǫllum næstu heruðum. Þessum svikum er þó leynt, svá at Hrólfr konungr verðr ekki varr við, ok eigi grunar kappana neitt um þetta, því at þetta váru mestu galdrar ok gerningar; setr Skuld hér til hinn mesta seið, at vinna Hrólf konung bróður sinn, svá at í fylgd er með henni álfar ok nornir ok annat ótǫluligt illþýði, svá at mannlig náttúra má eigi slíkt standaz. En Hrólfr konungr ok kappar hans hafa gleði mikla ok skemtun í Hleiðargarði ok alls kyns leika, þá er menn kunnu skyn á, þá frǿmdu þeir með list ok kurteisi; hverr þeira hafði frillu til skemtunar sér. Ok nú er frá því at segja, at albúit er liðit Hjǫrvarðar konungs

1. sína: *ul. B.* 2. fyrst: *ul. B.* 5. hann*(1):* hánum *B.* í—upp: *ul. B.* 6. at*(1):* með *B.* 7. eigi: *sål. A over linjen; ul. alle de øvr., også 12 b.* 8. milli: þeirra *tf. B.* 10. var: ok líðr nú svá þessi tími *tf. C.* 11. þess. stundu: þessum tíma *B.* 12. ǫllum: *ul. D.* 12—13. ok—illþýði: *ul. B.* 14. at: *ul. A.* 14—16. verðr—gerningar: veit ekki neitt af né kappar hans *B.* 16. mestu: *CD*; mestir *A.* 18. er: eru *B.* 19. annat ótǫlul.: alt *B.* at: *ul. AB.* 22—23. þá—þá: *ul. B.* 25. liðit: lið þeira *B.* -varðar: -varðs *AB.*

ok Skuldar, at þau fara til Hleiðargarðs með þenna ótǫluliga lýð ok koma þar at jólum. Hrólfr kon- 98
ungr hefir látit hafa mikinn viðrbúnað í móti jólunum, ok drukku menn hans fast jólakveldit. Þau Hjǫrvarðr ok Skuld reisa tjǫld sín utan borgar; þau váru bæði stór ok lǫng ok með undarligum búnaði; þar váru margir vagnar ok allir skipaðir at vápnum ok herklæðum. Eigi gaf Hrólfr konungr gaum at þessu; hugsar hann nú meira á stórlæti sitt ok rausn ok hugprýði ok alla þá hreysti, sem honum bjó í brjósti, at veita þeim ǫllum, sem þar váru til komnir ok hans vegr færi sem víðast, ok alt hafði hann þat til, sem einn veraldligan konungs heiðr mátti prýða. En ekki er þess getit, at Hrólfr konungr né kappar hans hafi nǫkkurn tíma blótat goð, heldr trúðu á mátt sinn ok megin, því *at* þá var ekki boðuð sú heilaga trú hér á norðrlǫndum ok hǫfðu þeir því lítit skyn á skapara sínum, sem bjuggu í norðrálfunni. Þessu næst er þat at segja, at Hjalti hinn hugprúði gengr til húss þess, sem frilla hans er inni; hann sér þá gløggliga, at eigi mun vera friðsamligt undir tjǫldum þeira Hjǫrvarðar ok Skuldar; lætr hann þó kyrt vera ok lætr sér ekki í brún bregða; leggz nú með frillunni; hún var kvenna fríðust; ok sem hann hefir verit þar um hríð, sprettr hann upp ok mælti til frillunnar: „hvárt þykki þér betri tveir tvíelleptir eða einn áttræðr?“. Hún svarar: „tveir tvíelleptir þykki mér

1. at—fara: nú fara þau *B*. 2. ótǫlul.: mikla *B*; -an *skr. CD*. 3. -búnað: -búning *B*. 5. reisa: settu *B*. 6. búnaði: búningi *B*. 7. at: af *D; ul. B*. 9. á: um *B*. 13. til: at bera *tf. CD*. veraldl.—heiðr: vǫldugan kóng *D*. kgs heiðr: konung *B*. 16. trúðu: þeir *tf. CD*. þá: *ul. A (ikke 12 b)*. 17. heilaga: kristiliga *B*. 20. húss: lopts *B*. 23. þó—lætr: *ul. B*. 25. fríðust: vænst *BD*. 26. um hríð: litla stund *B*.

betri heldr en áttræðir karlar“. „Þessarra orða
99 skaltu gjalda, sagði Hjalti, þín hóra“ — ok gekk
at henni ok beit af henni nefit — „kendu mér um,
ef nǫkkurir fljúgaz á um þik, ok vænti ek, at flest-
um þykki lítil gersemi at þér upp frá þessu“.
„Illa gerðir þú nú til mín ok ómakliga“, sagði hún.
„Ekki verðr við ǫllu sét“, sagði Hjalti. Hann þrífr
síðan vápn sín, því *at* hann sér, at alþakit er í
kring um borgina af brynjuðu fólki ok merki eru
upp sett; skilr hann nú, at ekki þurfi at dyljaz við
lengr, at ófriðr sé fyrir hǫndum; hann leitar til
hallarinnar ok þangat, sem Hrólfr konungr sat ok
kapparnir. Hjalti mælti: „vakið, herra konungr,
því *at* ófriðr er í garðinum ok er meiri þǫrf at
berjaz en spenna konur, ok þat hygg ek, at lítt
aukiz gull í hǫllinni við skattinn Skuldar systur
þinnar, ok hefir hún grimd Skjǫldunga, ok þat
kann ek þér segja, at þetta er ólitill herr með
hǫrðum sverðum ok hervápnum, ok þeir ganga í
kring um borgina með reiddum sverðum, ok mun
Hjǫrvarðr konungr óvingjarnligt erindi við þik eiga
ok eigi mun hann optar heðan í frá ætla at krefja
þik ríkis; þat er nú til, sagði Hjalti, at vér munum
stýra liði konungs várs, er ekki neitt sparir við oss;
efnum nú vel heitstrengingar várar at vér verjum
vel hinn frægasta konung, sem nú er á ǫllum norðr-
lǫndum, ok látum þat á hvert land spyrjaz mega,
100 ok launum honum nú vápn ok herklæði ok mart
eptirlæti annat, því *at* vér munum þetta eigi for-
verkum gera; hafa hér ok stórar bendingar fyrir

4. vænti—at: mun *B og så* þykkja. 6. nú: *ul. A.* 10. skilr: sér *B.* þurfi: þarf *B.* 11. sé: er *B.* 16. skattinn: skattgjald *B.* 19—20. ok*(2)*—sverðum: *ul. B.* 26. ǫllum: *ul. B.* 27. á—land: *ul. B.* 29—30. því—gera: *ul. B.*

borit, þótt vér hǫfum duliz við langa tíma, ok er mér meiri grunr á, at hér munu stórir tilburðir eptir koma, svá at í minni munu verða, ok munu sumir þat kalla, at ek mæli nǫkkut af æðru, en vera kann, at Hrólfr konungr drekki nú hit síðasta sinn með sínum kǫppum ok hirðmǫnnum. Upp nú allir kapparnir, segir Hjalti, ok gerið skjótt at skilja við frillur yðar, því *at* annat liggr nú brýnna fyrir, at búaz við því, sem eptir ferr; upp allir kappar með harðri svipan ok vápniz allir“. Þá stǫkk upp Hrómundr harði ok Hrólfr skjóthendi, Svipdagr ok Beigaðr ok Hvítserkr hinn hvati, Haklangr hinn sétti, Harðrefill hinn sjaundi, Haki hinn frækni hinn áttundi, Vǫttr hinn mikilaflaði hinn níundi, Starólfr hét hinn tíundi, Hjalti hinn hugprúði hinn ellepti, Bǫðvarr bjarki hinn tólpti, ok var hann því svá kallaðr, at hann rýmdi á burt ǫllum berserkjum Hrólfs konungs vegna þeira ofsa ok ójafnaðar, en drap suma, svá *at* engi þeira þreifz fyrir honum, því *at* þeir váru svá sem konur hjá honum, þá *er* á átti at reyna, ok þóttuz þó honum ávalt meiri ok sátu ávalt á svikráðum við hann. Bǫðvarr bjarki stóð strax upp ok herklæddiz ok mælti, at nú væri Hrólfi 101
konungi þǫrf á stoltum drengjum — „ok mun þeim ǫllum duga hjarta ok hugr, sem eigi standa á baki Hrólfs konungs“. Hrólfr konungr sprettr þá upp ok tekr til orða með engum ótta: „takið oss þann

2. á: *ul. C.* 8. brýnna: beinna *BD.* 11. -hendi: -henti *alle.* 12. hinn hvati: *ul. B.* 12—13. hinn sétti: *D ul. alle tallene undt. det sidste.* 14. mikil-: mikli *alle.* -aflaði: ofláti *C; ul. B.* Star-: Stór- *BD*; enn harði *tf. 11.* 18. vegna —ójafnaðar: *ul. B.* 19. svá—honum: *ul. B.* 20. konur: bǫrn *CD.* 21. ok—ok: *ul. B.* 22. ávalt: þeir þó jafnan *B.* 23. strax: *sál. alle.* 23—26. ok*(2)*—kgs: *ul. B.* 24. stoltum: hraustum *C.* 26. sprettr: stóð *B.*

drykk sem beztr er til, ok skulum vér drekka áðr ok geraz kátir ok sýnum svá, hvaða mǫnnum þetta eru, Hrólfs kappar, ok stundum þat eina, at í minni sé vár hreysti, því *at* hingat hafa sótt hinir mestu kappar af ǫllum lǫndum, sem í nánd eru, ok hinir fræknustu; segið þat Hjǫrvarði ok Skuld ok þeira gǫrpum, at vér munum drekka oss glaða, áðr en vér tǫkum við skattinum". Svá var gert, sem konungrinn mælti. Skuld svarar: „ólíkr er Hrólfr konungr bróðir minn ǫllum ǫðrum, ok er at slíkum helzt skaði, en þó skal til skarar skríða alt at einu". Svá mikit fanz um Hrólf konung, at hann var lofaðr bæði af vinum sínum ok óvinum.

Kap. 33. Hrólfr konungr sprettr nú úr hásætinu, er hann hafði áðr drukkit um hríð, ok allir hans kappar; skilja nú við drukkiun góða at sinni ok eru úti því næst nema Bǫðvarr bjarki; hann sjá þeir hvergi ok undraz þat mjǫk ok þykkir þeim ekki ørvænt, at hann sé annathvárt hertekinn eða drepinn. Ok þegar sem þeir eru út komnir, brestr í ógurligr bardagi. Hrólfr konungr fylgir sjálfr fram merkjunum ok kappar hans þar með á báðar síður ok allr annarr borgarmúgr, hverr eigi var fár at
102 telja þó *at* þeir kæmi til lítils. Þar mátti sjá stór hǫgg í hjálmum ok brynjum, sverð ok spjót mátti þar mǫrg á lopti sjá, ok svá margr hrævardalr, at þaktar váru allar grundir. Hjalti hinn hugprúði

---

1. drykk: drukk *A.* 1—2. drekka—ok*(1)*: *ul. B.* 2—3. ok*(2)*—kappar: *ul. B.* 2. mǫnnum: *CD*; menn *A.* 5. ǫllum: þeim *B.* 5—6. ok—fræknustu: *ul. B.* 6—7. ok—gǫrpum: *ul. B.* 12. var: svá *tf. B.* 13. bæði—óvinum: af óvinum sínum sem vinum *B.* 16. drukk-: drykk- *CD.* 19. her-: hand- *B.* 20. þegar—komnir: *ul. B.* brestr: þegar *tf. B.* 24. telja: tǫlu *B.* þeir: þat *B.* 26—27. ok—grundir: *ul. B.*

mælti: „mǫrg brynja er nú slitin ok mǫrg vápn brotin ok margr hjálmr spiltr ok margr hraustr riddari af baki stunginn, ok hefir konungr várr gott skap, því *at* nú er hann svá glaðr sem þá *er* hann drakk ǫl fastast, ok vegr jafnt með báðum hǫndum, ok er hann mjǫk ólíkr ǫðrum konungum í bardǫgum, því *at* svá líz mér hann sem hann hafi tólf karla afl, ok margan hraustan mann hefir hann drepit, ok nú má Hjǫrvarðr konungr sjá þat, at sverðit Skǫfnungr bítr, ok gnestr hann nú hátt í þeira hausum“ — en náttúra Skǫfnungs var sú, at hann kvað við hátt, þá *er* hann kendi beinanna. Lýstr nú í bardaga allákafan, svá *at* ekki neitt stendr við Hrólfi konungi ok kǫppum hans. Hrólfr konungr vegr svá með Skǫfnung at undrum þótti gegna, ok orka nú mjǫk á liðit Hjǫrvarðar konungs, ok fellr þat at handamáli. Þat sjá þeir Hjǫrvarðr ok menn hans, at bjǫrn einn mikill ferr fyrir Hrólfs konungs mǫnnum ok jafnan þar næst, sem konungrinn var; hann drepr fleiri menn með sínum hrammi en fimm aðrir kappar konungs; hrjóta af honum hǫgg ok skotvápn, en hann brýtr undir sik bæði menn ok hesta af liði Hjǫrvarðar konungs ok alt þat, sem í 103
nánd er, mylr hann með sínum tǫnnum, svá at illr kurr kemr í lið Hjǫrvarðar konungs. Hjalti litaz nú um ok sér eigi Bǫðvar félaga sinn ok mælti til Hrólfs konungs: „hverju mun þetta gegna, at Bǫðvarr hlífir sér svá ok kemr ekki nærri konunginum,

2. ok—spiltr: *ul. B.* 3. af baki: ofan *B.* 5. fastast: í kveld *tf. B.* 7. karla: *CD*; konunga *AB.* afl: magn *B.* 10. gnestr: gnístir *CB*; gellr *D.* 12. beinanna: *uden art. B.* 15. þótti gegna: gegndi *B.* 15—16. ok—ok: *ul. B.* þat: nú lið Hjǫrv. kgs *B.* 17. menn: lið *C.* 23. -varðar: -varðs *A* = *l. 16 (B fork.).* 25. -varðar: -varðs *AB.* 26. félaga sinn: *ul. B.*

